G. Vigfusson

# KRÓKAREFSSAGA,

# GUNNARS SAGA KELDUGNÚPSFÍFLS

OG

# ÖLKOFRA ÞÁTTR.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAÐ Á KOSTNAÐ PÁLS SVEÍNSSONAR.

HJÁ LOUIS KLEIN.

1866.

# Formáli.

Krókarefssaga er hèr prentuð eptir skinnhandriti því í handritasafni Árna-Magnússonar, er merkt er 471 í fjögra blaða broti. Stendr upphaf sögunnar á 42. bls, en niðrlag hennar efst á bls. 71. Í formála fyrir 2. bandi af Íslendingasögum (Kaupmh. 1847) hefir Jón Sigurðsson lýst þessu handriti þannig: No. 471 í 4 blaða broti er skinnhandrit i litlu 4 blaða broti; eru í því 108 blöð; á bókinni eru 7 sögur; Sumar sannar, en sumar æfintýri; stafsetningin er allófornleg; ð er ekki haft; ur fyrir r í endingum; th og d fyrir t; g fyrir k (og, mjög, eg) ie = è (sier, hier, þier): o fyrir á (svo, von); þó má orðfæri og stafsetning heita allgóð; og handarlagið fallegt og þrotalaust, og virðist að vera frá ofanverðri 15. öld".

Brot af sögunni er til á skinni í handr. 586. í 4 blaðabroti í hdr. safni Árna: 3 bls. framan of sögunni, stendr síðast á þeim Flóðs í Gellis blóði; 2 bls. úr síðara hluta sögunnar; byrjar það brotið á: „vel við ok fara þegar" í prentuðu sögunni á bls. 25. 13 línu, og endar á: „Hver var maðr þessi oss ókun" í prentuðu sögunni á 32. bls. 7. línu; hefir verið tíndr til merkasti orða munrinn, er á milli er skinnhandritanna; en til lítils þótti koma að eltast við orða mun úr mergð pappírshandrita, þó margt beri þeim á millí í smámunum, einna helzt þar sem skinnhandritið er í alla staði fremra þeim; á einstöku stað er reyndar tekinn orðamunr eptir pappírshandritinu 554. h. β. í handr. safni Á. M. skrifuðu af Katli presti Jörundarsyni.

Sagan er prentuð áðr á Hólum 1756, í ágjætum Fornmanna sögum, er vicelögmaðr Björn Marcússon gaf út. Síra Hallgrímr Pètursson hefir kveðið rímur út af sögunni, og virðist hún jafnan hafa verið vinsæl meðal alþýðu á Íslandi, og hefir hún nokkuð til þess, þótt ósönn sè hún; frásögnin er einföld en dáfjörug; ekki afar ósennileg, og víða kíminn.

---

Af Gunnarssögu Keldugnúpsfífls er ekki til neitt skinnhandrit, og ætlar þó Finnr Magnússon að hún muni vera samin á 14. öld. Pappírshandrit eru mörg til af sögunni í handritasafni Árna Magnússonar: í tveggja blaða broti No. 156. og 158. er þeirra nálega enginn munr; eptir 156 er sagan hèr prentuð; sú bók er með hendi síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti; í 4 blaða broti 552. e. 555 F. og 560. B. þessi handrit eru einnig hvort öðru svipuð, og lítill munr á þeim og 156 í öðru en einstöku orðum. 554. I. skrifuð af síra Katli Jörundarsyni; þessi saga er hinum öllum ólík; þegar í upphafi nefnir hún öðruvísi sonu Þorgríms: þar heita þeir Jökull og Grímr; en Grímssynir heita Rafn og Sigurðr, og kemr þetta betr heim við frásögnina lengra fram, því að þar eru Jökull og Grímr nefndir saman synir Þorgríms. Þessi saga er töluvert fjölorðari en hinar afskriptirnar og einstöku atvik í henni, er alls ekki er vikið á í hinum; t. d. lýsingin á leiknum að Hörgslandi:

„Þorgrímr bóndi sat á palli og Helga dóttir hans, skartaði hún allmikið. Gunnar fór úr kuflinum, og fauk úr honum aska mikil; hann vafði honum saman og kastaði honum í horn til Helgu; hún tók við og lagði niðr hjá sèr; leit þá hvort til annars, og höfðu það margir fyrir satt, að þau hefði fyrri sèzt; þeir hlaupa þá saman. Svo segir frá glímunni líkt og í hinum afskriptunum „en svo fer, að Gunnar grípr hann upp á bringu sèr, og gekk með hann innar að pallinum þar bóndi sat, og setti hann niðr

við fótborðið, svo í sundr gekk í honum hryggrinn. Gekk Gunnar þá að pallinum, þar sem Helga sat, og tók kufl sinn og fór í; síðan tók hann í hönd Helgu, og reisti hana upp og settist í sæti hennar, og setti hana síðan í hnè sèr; sá þá engi maðr nauðung á henni í það sinn. Gunnar var digr í sætinu, og þrengdi fast að bónda. Þorgrímr roðnar mjög, og líkar hið versta.

Þannig segir frá viðmælum Þorgríms og sona hans eptir fyrirsátina fyrir Gunnari: „Jökull og Gríss, Grímr og Þorsteinn komu nú heim; Þorgrímr spurði þá tíðinda. Jökull sagði allt af lètta, sem farið hafði. Þorgrímr sagði: „Lítt þyki mèr ykkr hafa tekizt; villda eg, að þið legðið af að glettast við þá bræðr; mun ykkar hlutr eigi batna við Gunnar, af Helgi er með honum“. Jökull mælti: „Eigi skal einn eiðr alla binda; má vera að oss takist betr til í annað sinn.

Hèr segir frá því, er fundum þeirra bræðra bar saman við víkinga:

„Eitt sinn fundu þeir eitt eyland; þangat lögðu þeir, rendu akkerum og gengu á á land. Gunnar gengr einn frá mönnum sínum með vopn sín, en sem hann hafði ei(gi) lengi gengið, sèr hann hvar XIII drekar sveyma að landi; bar þá skjótt að; gengu menn á land upp og settu landtjölld sín. Gunnar gengr þangat og spyr hver þeim stóra skipa flota á að ráða. Formaðr þeirra segir til hans, að hann skuli hitta hèr tvo bræðr, hverjir honum muni verða skeinuhættir. Gunnar spyr þá að heiti. Honum var svarað, að þar væri kominn Svartr og Jökull, og ætti þeir þessum her að stýra. Sem Gunnar heyrði þetta gengr hann sem hraðast frá þeim til manna sinna, og segir þeim frá hvernig komið væri, og biðr þá að búast til bardaga móti þessum bölvuðu hundum. Var þá búizt við stríði og blásið í lúðra hjá hvorutveggjum; bjó hver sig sem bezt mátti og lágu svo af nóttina; en að morgni komu hvorutveggju til samans, og hèlldu saman skipum sínum. Komu þeir Gunnar með sín þrjú skip móti þeim bræðrum. Síðan kallar Gunnar til þeirra og spyr hver þar gjöri svo gilldan aðgang. Svartr og Jökull svöruðu honum og sögðust þeim skipum þangat stýrt hafa, og munum við að fornu þekkjast. Þá segir Jökull að skuli þeir við búnir bardaganum. Gunnar og Helgi sögðu, að eigi skylldi langt að bíða, áðr þeir skulu rauðu sníta. Þá tóku berserkirnir til að grenja, og brjótast fram sem mest þeir máttu, og gjörðu mikinn skaða í liði Gunnars; en þeir bræðr í annan stað sóttu fast á móti þeim, og lètu dólgana dauða

falla af borðum út: dugði þá all vel Fálunautr. Hlupu þá margir í vitleysi út af skipunum og drápust. Helgi felldi margan mann, og var sem þá úlfr kemr soltinn í sauðahóp.“ Frá viðreign Jökuls og Gunnars segir líkt og í hinum afskriptunum — „En sem Svartr sèr bróður sinn dauðan, tekr hann til að hamast sem tröll og stefnir fram að Helga með ógurlegum látum; Helgi snýr honum í móti; Svartr reiðir þá sinn mæki, og leggr til Helga svo grimmlega, að hann kom varla skildi fyrir sig. Helgi höggr bæði ótt og tíðum móti Svarti, og svo hart að eldinum lýsti úr hlífonum; mátti eigi á milli sjá, hverjir sigrast mundi, því ekki beit á Svart helldr en annan berserk. Þá kallar Helgi til Gunnars og bað hann að ljá sèr sitt sverð til að drepa með þennan djöful.“

Má af þessum sýnishornum sjá að töluvarðr er munrinn á frásögninni í þessu handriti, og hinum.

---

Ölkofra þáttr er hèr prentaðr eptir hinu ágæta handriti í safni Árna-Magnússonar, er merkt er 132. Það handrit er, eptir því sem Guðbrandr Vigfússon segir í formála fyrir Fornsögum (Leipzig 1860) bls. IX., ritað á öndverðri 14. öld; eru á bók þeirri 10 sögur, og Ölkofra þáttr 7. í röðinni milli Droplaugarsona sögu og Hallfreðarsögu. Björn Markússon hefir látið prenta Ölkofraþátt (Hólum 1756).

## Mannanöfn:

## Landaheiti og örnefni:

Á dögum Hákonar Konungs Adalsteinsfóstra bjó úti á Íslandi í Breiðafirði[1]), á bæ þeim, er at Kvennabrekku heitir, maðr sá, er Steinn hèt. Kona hans hèt þorgerðr; hún var Oddleifsdóttir, systir Gests af Barðaströnd. Steinn var auðigr maðr, ok hinn bezti bóndi, ok þá gamall mjök. Son áttu þau, er Refr hèt. Hann var mikill vexti á unga aldri, vænn at yfirliti ok údælligr; engi maðr vissi afl hans; hann var eldsætinn[2]), ok enga hafði hann aðra iðn fyrir starfi, en veltast fyrir fótum mönnum, er þar gengu. Mikit mein þótti þeim hjónum at þessu, at sonr þeirra skyldi svá lítt vilja siðu nema annarra manna. Hann var af flestum mönnum fífl kallaðr. Maðr hèt þorbjörn, auðigr ok údæll ok víga-maðr mikill ok hinn mesti újafnaðarmaðr. Hann hafði búit í öllum landsfjórðungum. Höfðingjar ok alþýða höfðu þenna mann brott gjörvan, hverr úr sínum landsfjórðungi, fyrir sakir újafnaðar ok vígaferla. Engan mann hafði hann fè bættan. Rannveig hèt kona hans; hún var heimsk ok harðráð, ok þat var kallat, at þorbjörn mundi hafa unnið nokkurum óhöppum færra, ef hún hefði hann eigi framæstan. þorbjörn hafði nú keypt land þat, er at Sauðafelli heitir. Margir menn kvíddu nú mjök við kvámu þorbjarnar, þeir er áðr höfðu spurt til hans. Skammt var á milli bæja þeirra þorbjarnar

[1]) Breiðafjarðardölum. [2]) eldsætr.

ok Steins, ok fèll þar á ein á millum, sú er skildi lönd þeirra. En er þorbjörn hafði þar búit um stund, þá tók fènaðr hans at leggjast í land Steins, því at hann átti margt ganganda fjár. Eitthvert sinn kom Steinn at máli við þorbjörn búa sinn, ok mælti: „þannig er farit, at þú hefir búit í grennd við mik tvá vetr, ok hefir okkar verið í milli heldr vel en illa, en þú ert kallaðr maðr ekki vinsæll af alþýðu; hefi ek enga raun[1]) af þèr haft, nè þinni eign allt hingat til, en nú leggst fè þitt í engjar mínar ok beitast þær. Nú vil ek, at þú látir skipast við mína umræðu, ok látir betr geyma fjárins, en hèr til hefir verit; kann ok vera, þar sem ek er engi skröksmaðr, at til verði einnhverr, at trúa mínum orðum, þeir er þik deili málum; má ek þá slíkt fram bera, at eigi hefir þú mèr sýnt ujafnað, eða mitt með röngu ágirnzt[2]).“ þorbjörn kvað þann engan verit hafa, at jafnhógværliga ok vitrliga hefði við hann um talað[3]), lèzt hann ætla, ef fleiri hefði svá um talat, þat ábóta var vant, at hann mundi færri víg gjört hafa[4]): „skal ok at vísu batna við þína umræðu;“ Eptir þat skiljast þeir, lætr þorbjörn skipast svá vel við umræðu Steins, at fè hans gjörir hánum aldrei mein.

2 Nú líða stundir, þar til er Steinn tekr sótt; hann lýsir yfir því, at hann mundi eigi fleiri sóttir taka, ok kveðr sèr þá mundu einhlíta til bana. Hann mælti þá við þorgerði konu sína: „þat vilda ek, at þú seldir land þitt eptir dauða minn, ok færir vestr á Barðaströnd til Gests bróður þíns; segir mèr svá hugr um, at þorbjörn muni ekki rór í byggðinni við þik, þó vel hafi fallit með okkr; varir mik, at hánum þykki nú dælla landit til beitingar,

---

[1]) illa raun. [2]) haft. [3]) þorbjörn kvað hann hafa góða umleitan við sik; en öngvir hafa haft jamhógværiligar eptirleitir, ok vitrligar við hann umtalat. [4]) færri stöku víg unnit hafa.

en þá er ek var við.“ Eptir þat andast Steinn. Nú nennir Þorgerðr eigi at lóga landinu, því at henni sýndist þat fagrt ok at flestu gott; ok er eigi liðu langar stundir, versnaði fjárvarðveizlan Þorbjarnar; gengr nú fè hans í engjum Þorgerðar nótt með degi. Svá gjörist at þessu mikill gangr, at þat beit upp alla töðuna, ok var þat tvá vetr at búfènu varð frá at lóga fyrir heyleysi. Þorgerðr ræddi opt um við Þorbjörn, at hann skyldi fèit betr varðveita, ok stóð[1]) þat ekki. Nú leitast hún við, ef nokkurir vilja land hennar kaupa, en engi lèzt fúss, at sitja svá nærri Þorbirni. Var því landit eigi selt. Þess er við getið, at sá maðr var þar í hèruðum, er Barði hèt, manna minnstr; hann var kallaðr Barði enn litli; allra manna var hann frástr, ok eigi hljóp hann minna, en hinn bezti hestr; hann var skyggn ok glöggþekkinn; hann hafði fjárgeymslu á sumrum; hann var tryggr ok trúr um alla hluti. Þenna mann fann Þorgerðr á várþingi, ok spyrr, ef hann vili ráðast til hennar fjár at gæta; lèzt hánum mundu kaup fá, svo hánum[2]) hugnaði. Hún lýsti ok því fyrir hánum, at hann mundi optar þurfa, ok eigi minnr, at geyma fjár Þorbjarnar við misgöngum; sagði hánum ljúft ok leitt, hvat þar var til vanda garða á millum.[3])

Barði svarar: Eigi munda ek heldr kjósa mik annarstaðar, en með þèr at vera, þannig sem þú segir þar frá. Vex mèr þat ekki í augu, at verja land þitt við beit annarra manna“. Ferr nú Barði heim með Þorgerði, ok tekr við fjárgæzlu. Hann gjörir sèr skála tvá, annan við fjall, en annan á fitjum ár, er þar fellr í millum húsa[4]); hann hefir þar náttból einart, ok varðar svá fè Þorbjarnar land Þorgerðar, at þat kemr aldri yfir ána; stendr

---

[1]) stoðar. [2]) líkaði. [3]) Sagði honum löst ok kost, hvat þar var garða í milli. [4]) bæja. 586.

hann á bakkanum ok verr þaðan fènu; aldri gengr hann yfir ána. Fè þorgerðr nytjast vel; en hin fyrri sumurin hafði þat eyfit gjört. Rannveigu húsfreyju þótti verða sumar fenglítið með sèr. Hón talar einn dag við þorbjörn, ok spyrr, hvert fènu sè haldit; hann sagði ganga um daga með ánni. „Hvárt gegnir þat nokkuru", sagði hún, „at sá maðr sè með þorgerði, at fè váru banni haga, er þat hefir haft þessi sumur; eru þèr þó mislagðar hendr í knè, þorbjörn, er þú hefir hlaupit í höfuð þeim mönnum, er saklausir hafa með öllu verit, en þú lætr þenna vittling ganga fram í þeim úsóma, at banna fè vóru jörð þá, er þat vill hafa". „Hverr er sjá maðr?" sagði þorbjörn. „Hann heitir Barði," segir Rannveig, „ok er manna minnstr ok vesalligastr, ok liggr hann úti hverja nótt, ok varðar fè váru at koma yfir ána".

Eptir þat tekr þorbjörn hest sinn, ok ríðr yfir ána, ok þar kemr hann, sem Barði var við skála. þorbjörn mælti þá: „Er þat satt, at þú varðar fè váru haga þessa, ok berr þat, svá þat þorir ekki at bíta í nánd ánni; höfu vèr at svá gervu engar nytjar fjárins." Barði segir: „Eigi er þat logit, at ek læt aldrei þitt fè koma í vára landeign, en þat er eigi satt, at ek berja fè þitt, eða varða því sjálfs þíns land; ætla ek yðr nú hafa munu eigi minna sumarfeng, en hin fyrri sumur; hafi þèr nú ok betr at komizt". þorbjörn mælti: „Líkligri þykki mèr þú til úheimilt at hafa, en ek, er þú mátt kallast útilegumaðr, ef illar verða heimtur í haust. Nú vil ek at þú kviðist[1]) þessa verks, ella mun þèr ekki hlýða[2]). Barði svarar. „Svá hefi ek optast fjárgæzlur tekit, at ek hefi haldit vist minni, ok svá hefir enn verit". þorbjörn höggr þá Barða banahögg, ok dregr hann síðan inn í skálann, ok ríðr síðan heim, ok sagði, hvat í hafði gjörzt. Rann-

---

[1]) hdr. 471 kveðist hdr. 586 synír. [2]) ek þèr ekki hlífa.

veigu þótti þá vel um ráðit, ok lèt þegar reka fèit í land Þorgerðar; gengr fèit heim í túnit ok brýtr ofan sætið hennar ok gjörir margt illt. Hún kemr út, ok sèr nautin standa um allan garðinn[1]). Þóttist hún vita, at illu mundi gegna; sendir til, at reka í burt fènaðinn, ok finna Barða veginn í skálanum. Sögðu nú Þorgerði þessi tíðindi. Hún gengr þá inn í eldaskála, ok sèr Ref son sinn; hún mælti þá: „Ávallt hrýs mèr hugr við, er ek sè þik, frænda skömm þína, fyrir mínum augum, ok hve mikill úgæfumaðr ek var, þá er ek ól þinn úvita; værir þú betri dóttir; mætti ek þá gefa hana þeim manni, er oss væri nokkut traust at; en þótt landeign vár sè beitt upp, eðr taða niðrbrotin, eða menn drepnir, þá liggr lydda þín, ok lætr, sem vèr eigum ekki annast.“ Refr ríss þá upp ok mælti: „Harðar munu at heyra þínar fleiri átölur, móðir, er slíkar eru hinar fyrstu“. Hann tók ofan höggspjót mikið: Steinn hafði verit vápnamaðr mikill. Refr gengr nú úr garði, ok ferr á þá leið, at hann skýtr spjótinu fyrir sik, ok hleypr þar eptir, Húskarlar Þorbjarnar váru á verki, ok sjá för Refs, ok kenna manninn, ok gjöra at gys mikinn. Refr stefnir heim á bæ Þorbjarnar, ok er hann kemr fyrir dyrr, sèr hann ekki úti manna; hann heyrði, at konur váru í stofu, ok töluðu um, hvárt Þorbjörn mundi vaknaðr, því hann hafði lagzt niðr at sofa; Refr brýtr neðan af spjóti sínu, gengr inn síðan snúðigt ok eptir skálagólfinu. Þorbjörn heyrði til mannsins, ok spurði, hverr þar færi. Refr svarar: „Ek fer hèr nú“. „Þú hverr“, kvað Þorbjörn. „Maðr af öðrum bæ“, segir Refr. „Nafn muntu þó eiga“, segir Þorbjörn. „Ek heiti Refr“, ok í því snarar Refr í lokrekkjugólfið. Þorbjörn hafði kastað af sèr klæðunum, ok mælti: „Allmjök förlast mèr nú er ek kenni þik eigi, kom þú heill ok vel,

[1]) allt túnit.

Refr, eða hvert er erindi þitt hingat?“ Refr mælti: Mjök er þat komit undir þèr, hvert þat skal vera“. „Hvernig er þat?“ segir Þorbjörn. Refr svarar: „Ek er kominn til at beiða bóta fyrir víg Barða, húskarls míns; mun ek vera at lítilþægr, ok þat, er þèr er minnst fyrir at láta, en mèr þó sæmd við at taka; er mèr þat sæmd, at þú virðir þess orð mín, þar þú hefir úríkan mann drepið“. Þorbjörn klæðist nú skjótt, ok mælti: „Vel er slíks leitat, ok má vera, at ek bæta nokkuru, en hitt eigi síðr, at hvárki bæta ek þenna nè neinn annan“. Refr mælti: „Hitt er sæmiligt, at þú látir fyrir verða nokkut“. Þorbjörn mælti: „Alls þú mælir svá vel til, þá skal fyrir verða nokkut“. Hann var nú klæddr; þreifar nú niðr með rekkjustokkinum, þrífr þar upp kníf einn mikinn, einjárnung, ok með brýni. Þorbjörn tók þá sverð í hönd sèr, ok rètti þá knífinn ok brýnit at Ref, ok mælti: „Deigan skal deigum bjóða“. Í því leggr Refr spjótinu á Þorbjörn miðjan; fèll Þorbjörn á bak aptr, ok gat eigi brugðit sverðinu; var þat ok friðbent, enda bar bráðan at. Refr lauk þá aptr hurðina á lokrekkjunni, ok snýr síðan til útidyra; í því var lokit stofu hurðinni. Mikill viðar köstr stóð fyrir karldyrum af rektrjám. Þat ráð tók Refr, at hann hljóp í viðköstinn; því at hann vissi, at húskarlar Þorbjarnar váru á leiðinni, ok þegar mundi vart við verða, ef hann færi heimleiðis. Konur höfðu heyrt mannamálit, ok forvitnuðust til; sá þær þá renna blóð eptir gólfinu. Kölluðu þær þá á húskarla, ok er þeir kómu til, sjá þeir Þorbjörn veginn; þeir leita Refs ok finna hann eigi. Engi þóttist hann sèt hafa heim ganga um kveldit. Var þá hætt leitinni. Gekk Refr þá úr kestinum ok heim. Hann vekr móður sína, ok bað hana út ganga. Hún gerði svá, ok er þau komu út, spurði hún hvárt Þorbjörn hefði nokkru bætt víg Barða Refr kvað vísu:

Mèr bauð mætan fúrar
máskeiðs í dag breiðan,
trautt var þat tækt í sættir,
týnir, kníf ok brýni.
Orms mærar hefig örum
unda naðrs úr mundum,
hjarta stig á hneigi,
hann ok vegit, kannat.

„Seg þú manna heilastr,“ sagði hún; tak þú nú hesta tvá hèr hjá garði, ok haf hingat til mín; var þar lagðr á søðull á annan, en annarr var búinn með töskum; váru þar í gripir góðir. Refr tók þá ok góð klæði, þótti hann þá hinn vígligasti maðr. Þorgerðr mælti þá: „Maðr heitir Grímr, er hèr býr skammt fram í dalinn á landi okkru; hann skal vera leiðtogi þinn, en ek sendi þik vestr á Barðaströnd til Gests bróður míns; vil ek, at þú sèrt þar, til þess er sætzt er á víg þetta“. Refr ferr nú leið sína, ok lèttir eigi fyrr en hann kemr í Haga; fèkk Refr þar góðar viðtökur; ok er þeir frændr tókust orðum, spyrr Gestr, ef Refr segði nokkur tíðindi. Refr lèzt engi segja. „Veiztu þó nokkur?“ segir Gestr. Refr kvað þat eigi örvænt, ok segir slík, sem hann átti um at vera. Gestr kvaðst at vísu skyldu halda hann, ok spurði, ef hann væri nokkurr íþrótta maðr. Refr kvað því fjarri fara. Gestr mælti; „ek sè á þèr, at þú ert hinn mesti íþrótta maðr at nokkurum hlut, en þat mun ek sjá brátt, hvað þat er“. Refr dvelst þar nú um hríð.

Eitt sinn kemr Gestr at máli við Ref ok mælti: „Nú veit ek íþrótt þína; þú ert þjóðsmiðr, ef þú vilt. Ek hefi athugat, er þú hefir tekit reimunar kefli, ok hefir þú þat hvárki telgt vint nè skakkt, ok eigi úslètt[1]) ok þat hefir fimlegast verit, sem þú hefir við leitat.“ „Vera má þat,“ segir Refr, því at ek hefi aldri smíðat“. Gestr segir:

[1]) úslètt er tekið eptir pappírs hdr., en í 471 er ritað slètt.

„Ek vil reyna þik; vil ek, at þú gjörir mèr selabát“. Refr mælti: „fá þú svá efni til ok smíðunartól, at allt sè þat meira en nógt; því at þat er margra manna háttr, at þeir kenna því um, ef eigi verðr vel, at latliga[1]) sè til fengit. Ek vil ok, at engi maðr forvitnist þessa smíð; því at þat er mælt, ef vel verðr, at sá nokkurr muni til hafa komit, er mèr muni kennt hafa“. Gestr lætr nú búa hróf eitt mikit, ok draga þangat viðu mikla; knör einn hafði brotið á fjörum Gests; hafði hann keypt upp skipviðuna; þá alla viðu lætr hann færa til hrófs Refs, ok svá sauminn allan. Gestr átti ok járn úsmíðat, ok læzt Refr þat vildu til sín taka; læzt sjálfr vildu saum slá. Smíðartól á alla vega lèt Gestr þangat bera, svá ok afl ok kol; þá mælti Gestr: „Nú hefi ek svá alla hluti látið bera til hrófs þíns, at eigi mun fleiri þurfa, þótt þar væri smíðaðr byrðingr sá, er vel mætti fara til annarra landa“. Refr kvað hann ekki mega meira at gjöra, hvernig, sem til tækist. Nú tekr Refr til smíðar; hann ríss upp snemma, en kemr síð heim; þessu ferr fram þrjá mánuði. Þat var einn morgin, at Gestr sendi trúnaðarmann sinn til hrófsins: biðr hann vita, hvat líði um sela bátinn; kvað þess ván, at hann mundi gjörr, þótt hann kynni alllítið at. Sá fór, er sendr var, ok kom þar svá, at Refr varð ekki varr við, ok hyggr at smíðinni vandliga; ferr hann heim ok segir Gesti, at eigi muni opt sènn slíkr selabátr; „því at komit munu hafa út hingat eigi stærri skip“.

Gestr bað hann ekki til leggja. Liðu nú svá fram tveir mánuðir. Þat var einn dag, er Gestr var á fótum, at hann sèr, at Refr liggr í hvílu sinni. Gestr tekr á hánum ok mælti: „Lengi sefr þú nú, frændi; er nú gjörr sela bátrinn?“ „Kalla má þat,“ segir Refr, „at nú sè

---

[1]) í 471 stendr letliga.

borinn borði; ok ekki mun ek nú at gjöra meira, fyrr en þú sèr.“ „Vit skulum þá ganga til í dag,“ segir Gestr, „ok sjá smíði þetta.“ Gestr gengr þá til hrófsins við fá menn; því at hann vildi eigi, at alþýða sæi, ef ófimligt væri; ok er hann kom þar, stóð þar byrðingr einn vel haffærandi: þóttu þat vára hèr fáheyrð tíðindi. Gestr hyggr vandliga at þessu skipi, ok þykir mikils um vert hagleik hans, þar sem hann hafði eigi fyrr skip gjört, ok þakkar hánum nú smíðina;“ vil ek því nú launa þèr, at ek vil þetta skip þèr gefa.“ Refr kveðst gjarna þiggja vildu; spyrst nú þetta víða, at Refr Steinsson hefir gjört byrðing haffæranda. Sá at burðr hafði orðit, at með föður hans hefir verit á vist norrænn maðr ok son hans; váru þeir jafngamlir austmannssonr ok Refr. Austmanns sonr hefir sèr at leiku(m) skip þat, er hafði verit í Noregi sem líkast haffærandi byrðingum; en áðr austmannsson fór í brott, gaf hann Ref skip þetta, ok þat hafði Refr haft til skemmtanar sèr í elda skálanum, at smíða þar eptir. Nú líðr af vetrinn þenna ok tókust upp leikar[1]).

Maðr er nefndr Gellir; hann var farmaðr mikill; var annan vetr í Noregi, en annan hèr; hávaða maðr mikill; hèlt mjök til gleði. Móðir hans bjó þaðan skammt á braut, þar sem heitir í Hlíð; hún hèt Sígríðr; auðig mjök. Bóndi hennar var andaðr, ok því var Gellir kallaðr Sigríðarson. Gellir gekk mjök at leikum, ok var hann knástr af þeim, sem þar váru. Þat var einn dag, at Gellir fór til leiks við nokkra menn í Haga. Gellir spurði, ef Refr vildi fara með honum; Refr kvað sér ekki henta leika, ok kveðst eigi mundu fara. Gellir spurði þá, ef Refr vildi leysast af, ok glíma við hann. Refr kveðst eigi mundu þat gjöra. Gellir hleypr þá af baki, ok ræðr

---

[1]) líðr nú vetrinn ok takast upp leikar um ströndina.

á Ref, ok mælti: „Heyr endimi, at þú segist eigi glíma, ef ek vilda; skaltú nú glíma nauðigr, þóttú vilir eigi.“ Hann leitar á marga vegu, at fella Ref, ok fær eigi fellt hann. Refr forðast, meðan Gellir sækir sem mest; en er Gellir linar sóknina, tekr Refr undir bróklindahaldit Gelli annarri hendi, en annarri milli herðanna, ok skýtr honum á klakann stund þar frá sèr; koma niðr á Gelli albogarnir ok springr hvárrtveggi, en enni hans blánar. Hann spratt upp skjótt, ok hljóp á bak ok tekr upp spjót; reiðir upp spjótshalann ok lýstr til Refs; kemr þat á herðar hánum ok hrýtr af upp, ok kom í höfuðit; varð hánum ekki illt við. Gellir hleypir á brutt ok hans förunautar, ok hælast mjök; kallast Gellir hafa lostið Ref tvö högg mikil, ok reiðir þetta víða, ok sagði Ref eigi mundu hefna. Refr lèt, sem hann vissi eigi. Gestr hafði eigi heima verit. Eptir jól bræðir Refr skip sitt, ok býr þat; Gestr fær til allan reiða. Þess er getið, at Gellir átti heiman för, ok lá leið hans hjá hrófinu, ok lítr Gellir á skipit; maðr einn fór með hánum. Refr heyrir, at Gellir mun kominn vera; hleypr undan skipinu með smíðaröxi sína ok at Gelli. Refr mælti: „Nú skal ek gjalda þèr tvö högg með einu.“ Höggit tók af síðuna, ok þar öxin inn á hol; fèll Gellir dauðr til jarðar, en förunautr hans reið í brutt. Refr gekk heim ok fundust þeir Gestr. Hann mælti: „Giptusamligr ertu nú frændi, eða hvat er nú tíðinda?“ Refr kvað:

þat áðan

Roðin var randar gyðja,
ráð knýðist, dag þenna,
fúrsveigi hjó ek frægan
flóðs, í Gellis blóði.
Nú tel ek hefnt, en hrafni
heitr fangaðist sveiti,
getið verðr slíkt fyrir snotrum
seggjum, höggs ok tveggja.

/s

„Manna heilastr,“ segir Gestr. „Þat munda ek

kjörit hafa, þá ek heyrða þat víðast borit, at Gellir hefði lostit þik tvö högg, at slíkt hefðir þú at; eða hvat er nú ráða þinna.“ Refr segir: „Ek ætla at halda skipi mínu til Grænlands“. Gestr mælti: nú kaustu þat, er ek vilda; því at þèr mun ekki vel fritt í Noregi, þegar spyrst víg þetta. Nú mun ek afla þèr háseta til skipsins, ok fá þèr fjárhlut, sem þú vilt hafa, en við móðir þín munum síðan við skiptast, sem okkr líkar“. Refr býr nú skip sitt, ok veljast til bóndasynir vaskir, at fylgja hánum. Leysir Gestr hann vel af höndum, ok at skilnaði mælti Gestr við Ref: „Ef þèr verðr eigi út komu auðit, þá vil ek, at þú látir skrifa frásögn um ferð þína, því at hún mun nokkrum merkilig þykja, því at ek hygg, at þú sèrt annarr spekingr mestr í várri ætt; mun ok nokkut af þèr verða. Mæli ek nú svá fyrir, at sá hinn sami, er sólina hefir skapat, efli þik til góðra hluta“. Refr þakkar Gesti vel sín tillög.

Nú skiljast þeir, ok lætr Refr í haf. Hánum ferst vel, þar til er þeir fá sýn af Grænlandi, ok síðan velkir þá lengi, ok hefir þá norðr með landinu. Um síðir koma þeir á fjörð einn norðarliga í óbyggð. Jöklar gengu allt til suðrs í sjá út; ok með því, at þeir váru hafvelktir, þá váru þeir landfúsir. Þeir lögðust um akkeri. Refr reri þá til lands, ok gekk hann upp á hit hæsta fjall, at sjást um. Hann sá, at fjörðrinn skarst langt inn í landit, er þeir váru at komnir, ok höfðar tveir gengu á víxl í firðinum. Fór hann þá aptr til skips síns. Um morguninn bað hann þá flytja inn skipit, þar til er þryti fjörðinn, ok svá gjörðu þeir, en er þeir komu at höfðunum, þá sá þeir, at þar hófst upp fjörðr mikill ok langr; en er þeir komu at fjarðarbotni, þá var þar góð höfn. Skógi var vaxit allt um hlíðar ok grænar brekkur; jöklar girtu þar um allt báðumegin. Þar var fjöldi dýra; rekaviðr lá þar um allar fjörur, en veiðiskapr nógr. Ekki

mátti þá til byggða halda. þar gjörðu þeir skála mikinn ok bjuggust um vel. þar váru þeir um vetrinn. þar smíðaði Refr ferju eina, ok bjuggu hana til byggða, en bjuggu þar eptir um kaupskipit. Síðan sigldu þeir í byggðina, ok komu í einn víkrbarm. Skammt þar upp frá stóð einn bær. þar bjó sá maðr, er Björn hèt. Hann var kvángaðr ok átti eina dóttur, er Helga hèt; hún var væn ok kæn; ok þótti sá kostr beztr í þeirri byggð. Refr selr ekki varning sinn, ok tekst á hendr smíði. Björn hittir Ref at máli, ok spyrr, ef hann vill kaupast láta, at húsa bæ sinn. Refr játar því, ok síðan kaupast þeir við; tók Refr nú at húsa bæinn, ok gjörir skrautligan. Sá bær heitir í Hlíð. Ödrumegin ness þess, er þar gekk fram, stóð bær sá er í Vík heitir. Sá maðr bjó þar, er þorgils hèt, ok kallaðr Víkrskalli. Hann var grályndr ok kvittsamr ok slægvitr; mikill údældarmaðr var hann, ok þótti öllum illt við hann at eiga. Hann var hniginn á efra aldr ok kvángaðr. þengill hèt son hans hinn elzti, annarr Ormr, þriði þorsteinn, fjórði Geirr; Ólöf hèt dóttir hans; hún var gipt þeim manni, er Gunnarr hèt. þengill hafði beðit Helgu, ok vildi Helga eigi eiga hann. Refr er nú með Birni, ok húsar bæ hans; ok þá biðr hann Helgu. Björn tók því vel. At ráði með hánum var sá maðr, er þormóðr hèt; hann var fóstri Helgu. Hann fýsti mjök, at þessi ráð tækist, ok þar kom, at Refi var heitið konunni, ok ákveðin brullaupsstefna. Síðan tókust þessi ráð með þeim skildaga, at Refr skyldi taka við búi í Hlíð, ok þau Helga, en Björn vill vera búlauss á vist með þeim. Um várit eptir tekr Refr við búi, ok rakaði skjótt fè saman; hann smíðaði til stórfjár. Helga var ok skörungr mikill. En, er þau höfðu skamma hríð ásamt verit, fór Björn at deyja. því næst var þeim sona auðit Ref ok Helgu. þau áttu son, er Steinn hèt. Tveim vetrum síðar áttu þau annan, er

Björn hèt. þeir bræðr váru hinir efniligustu menn. Refr bjó átta vetr á Grænlandi á sama bólstað.

Á þeim vetri hafði hann skip í smíð, mikla feriu, en hrófit var úti við nes þat, er framgekk milli Víkr ok Hlíðar. Hann gekk snemma til, en síð frá. Hann læsti þar í hrófinu smíðaröxi sína um nætr, en gekk slyppr heim. þat var einn aptan, er hann gekk svá búinn heim, sem hann var vanr. Refr gat at líta fram á nesit, hvar hvíta björn var. Björninn skundar nú sinni ferð, er hann sá einn mann. Refr þykist þá óvarliga farit hafa. Nýsnævi var á jörðu, ok auðsæ spor, hvert sem rekja skyldi. Refr sá eigi efni sín á, at ganga á móti birninum vápnlauss; snýr hann nú aptr til hrófsins, ok tók öxina, læsir síðan hrófinu; snýr nú þangað, sem björninn hafði verit, ok var hann þá dauðr. Höfðu þeir bræðr, synir þorgils, sigrat björninn, er þeir höfðu gengit frá róðri. Refr gekk þá heim.

Nú er þar til máls at taka, at þeir þórgilssynir koma heim. Faðir þeirra spurði, hvat þeir hefði fiskat. þeir lètust ekki fiskat hafa; „en veitt höfum vèr hvíta björn einn.“ þorgils mælti: „Mikit er um uppeldi yðvart, er þèr veitið búi váru; ok megu fáir svá fyrir vinna.“ þengill mælti: „Búit var við, at vit mundum lítið fá af veiðiskap þessum, ef eigi hefði Refr hinn ragi sýnt sinn drengskap. Hygg ek þat, at aldri hafi dáðlausara höfuð komit til Grænlands, en hann berr. því at mannsspor liggja frá hrófinu, ok hafði horfit aptr, ok var hland drifit í sporunum“. þengill mælti þá við Ref mörgum áþèttis orðum. þorgils faðir hans þagði. þengill spurði, því hann þegði; „eða veiztu eigi, faðir, hverr Refr hinn ragi er.“ þorgils mælti: „Um slíkt er illt at ræða, ok ávallt mætti Grænland rauða kinn bera, er þat heyrði Refs getið; því at ek sá, þegar hann var hingat nýkominn, at óflutt hafði verit áðr Grænlandi hin mesta skömm. því

hefi ek fátt við hann átt, at þá ek var á Íslandi, var hann ekki í æði sem aðrir karlar, heldr var hann kona hina níundu hverja nótt, ok þurfti þá karlmanns, ok var hann því kallaðr hinn ragi, ok gengu ávallt sögur af hans fádæmum endimligar. Nú vilda ek því, at þèr ættið ekki við hann". Nú skilja þeir sitt tal; er nú farit eptir bjarnar slátrinu, En hvar sem þeir Þorgilssynir komu, þá bera þeir upp þetta illmæli, ok kveykja þat í öllu, at Refr hafi fyrir regi sakir[1]) gjörr verit af Íslandi; ok verit í burt keyptr nokkru fè. Þeir færðu þetta hróp á vöxtu, ok svo ferr þetta í fjölmæli, at Refr verðr þessa áheyrsla. Eigi lætr hann, sem hann viti, en skip þat, sem hann hefir í smíð, býr hann at öllu sem bezt. Hann lætr slátra mjök um haustið, en sumt fè sitt selr hann til Grænlenzks varnings. Refr hefir haustboð mikit ok býðr til sín vinum sínum, en í hljóði seldi hann land sitt við lausafè; hann skilr ok þat til, at hann skal þá á missirum land laust láta, ok gjöra hinum orð um. Hann hefir með sèr margt röskra manna; eigi færri en tólf. Refr var orðinn stórauðigr. Þetta var at tvímánaði. Þat var einn dag, at Þormóðr kom at máli við Ref, ok mælti: „Svá illan orðróm hefir nær alþýða manns um þik, ok eru at því upphafsmenn Þorgils ok synir hans; en þá er ek fýsta, at ráð tækist með ykkr Helgu, hugðumst vèr gipta hana duganda dreng, ok svá ætla ek þik; en of mjök þykir mèr þú sanna vándra manna orð, er þú lætr þá um kyrrt sitja. Nú bið ek þik at þú látir þá kenna á sjálfum sèr fyrir sín illyrði." Refr svarar: „Fyrr skyldi maðr hafa hugat ráð nokkut fyrir sjálfum sèr, en rata í stórræði, eða eggja aðra til". Nú skilja þeir sitt tal, ok sezt Refr nú til smíðar, ok gjörir eitt fádæmamikit spjót; með því mátti bæði höggva ok leggja. Hann skeptir þat

---

[1]) 554 ragleika.

löngu skapti ok vefr allt járni; þvínæst hvetr hann þat, svá þat stóð á kampi. þessu næst at áliðnum degi gengr Refr heiman einn saman. Hann hefir spjót eitt vápna. Hann gengr í Vík; hann kom þar síð dags. þorgils var at soðningu í elda húsi. Refr snýr þangat. þorgils spurði, hverr þar færi. Refr segir til sín. þorgils mælti: „Mjök leggr reyk í augu mèr, er ek kenni þik ekki, ok kom þú heill ok vel". Refr segir: „þat vil ek þiggja". þorgils mælti: „Hvat er at erindum". Refr segir: „Ek er kominn at beiða bóta fyrir illmæli þat, er þèr hafit til mín haft". þorgils mælti: „Nær höfum vèr illa til þín talat, eða hvert er þat mál, er þú kennir oss?" Refr sagði þá fram orðin. þorgils mælti þá: „Ekki dyl ek þess, at vèr mælum margt í gamni, en þó mun þetta eigi logit, því at ek ætla hèr hvert orð satt í vera". Refr höggr þá til hans með spjótinu, ok klýfr hann í herðar niðr. Síðan kippir hann í brutt spjótinu, ok gengr þá ofan til strandar, ok sezt í naust þeirra bræðra þorgilssona. Niða myrkr gjörði á mikit. þvínæst heyrði hann ára glamm, ok er þeir bræðr koma at landi, hleypr þengill fyrir borð, gengr upp ok vill sækja hlunna í naustið, ok er hann kom þar, bjó Refr höfut af hánum. þorsteinn hljóp þá utanborðs, ok veit ekki til þessa, því at svá var myrkt, at eigi sá til naustsins. þorsteinn tekr árar ok berr upp; ok er hann kom at naustdyrunum, leggr Refr spjótinu í gegnum hann. þorsteinn kallar í því ok mælti: „Forðit ykkr, sveinar; þengill bróðir ykkar er drepinn, ek lagðr í gegnum." Ormr greip árar úr öðru skipi ok hratt út með skipinu; reru þeir á brutt, ok þangat um nesit, sem hróf Refs stóð; lögðu þar at landi, ok ætluðu Ref eigi mundu þangat leita þeirra. En er þeir höfðu upp brýnt skipinu, þá kom Refr þar ok drap þá báða. Eptir þat gekk Refr heim, ok heitr á menn sína, at til skips skyldi flytja bæði

vistir ok fjárhlut. Refr lætr nú verða hlaðna ferjuna; stenzt þá á endum, at þá er ljóss dagr um morguninn, er þá ok á skip kominn allr sá fjárhlutr, er Refr vildi með sèr hafa. Hann velr þá gjafir þeim hinum ungum mönnum, er með hánum höfðu verit, ok bað þá vera til reiðu, sèr at fylgja, er hann lèti vitja þeirra, nær sem þat væri. þeir játa því gjarna. Refr sendir þá orð með þeim, at þeir tæki þá landit, er keypt höfðu. Refr gengr þá á ferjuna ok kona hans ok synir hans. Steinn var þá IX vetra, en Björn VII vetra. þormóðr hèt hinn þriði, ok var sá þrèvetr. þormóðr fóstri Helgu skyldi ok fara; kom vindr af landi, ok undu þeir Refr segl upp. Lètu svá ganga um daginn til hafs. Eru þau nú fyrst úr sögunni.

þar er nú fyrst til at taka, er heimamenn styrma yfir þorgilsi, er hann er veginn; ok um kveldit er farit til strandar, ok fundust þeir þar vegnir, þengill ok þorsteinn, en hina tvá fundu þeir vegna um morguninn. þessi tíðindi spyrjast nú víða, ok harma fáir þorgils nè sonu hans; en mikit þykir verkit orðit hafa eins manns, ok á einu aptan kveldi, ok þykir Refr úslæliga rekit hafa illmælit. Gunnarr, mágr þorgils, spyrr nú þessi tíðindi, ok lætr hann setja vörðu á hvert annes um byggðir báðar, ef Ref kynni einhvers staðar[1]) at at bera um haustið; en eignir mátti ekki upptaka, er allar voru seldar. Gunnarr var fyrir mönnum í vestrbyggð. Hvergi spyrst til Refs. Um várit sendir Gunnarr menn norðr í úbyggðir at leita Refs, ok finnst hann eigi, ok engi maðr spyrr til hans. Gunnarr leggr nú á þat hug, at Refr muni látizt hafa, er hann hafði á skip gengit með VI einum mönnum, ok þó öllum úknáligum. Nú líða svá fjórir vetr, ok spyrst hvergi til Refs; ok leggst nú niðr þessi umgröptr

---

[1]) nokkurr stendr í 471.

um Ref; þykjast menn nú vita, að hann muni týnzt hafa, eða rekit skip hans til úbyggða. Munu vèr hèr fyrst hverfa frá. Ok meðan saga sjá hefir gengit ok upp fæðsla Refs, höfðu orðit mörg höfðingjaskipti. Í Noregi var nú kominn til ríkis Haraldr konungr Sigurðarson. Með hirð konungs var sá maðr. er Bárðr hèt; hann var konungi handgenginn. Hann var á sumrum í kaupferðum til ýmissa landa, Íslands eðr vestrlanda, ok fór hann nú þetta sumar, er nú segjum vér frá; býr hann skip sitt ok ætlar út til Íslands. Konungr lætr kalla Bárð til sín, ok spyrr hann, hvert hann ætlar halda skipi sínu. „Til Íslands," segir Bárðr. Konungr mælti: „Ek vil, at þú farir öðru vís; skaltu nú sigla út til Grænlands, ok flyt til vár tönn ok svörð". Bárðr segir, at konungr skyldi ráða. Eptir þat sigldi Bárðr á haf ok tókst hánum hit greiðasta. Kom hann til Grænlands, ok fór til vistar um vetrinn með Gunnari, ok er hann hafði þar verit um hríð, þá vekr Bárðr til við Gunnar, oh spyrr, hvat satt væri í því. er hann heyrði sagt, at einn íslenzkr maðr hefði vegit V feðga á einu kveldi, ok hefnt svá þess íllmælis, er þeir höfðu kveykt um hann. Gunnarr lèt hæft til þessa nokkut: Bárðr spurði, hvat af þeim manni er orðit. „Þat hyggjum vèr," sagði Gunnarr. „at hann hafi týnzt í hafi, því at hann varð svá hræddr, at hann lèt í haf við VI. mann við vetr sjálfan". Bárðr spyrr, hvat til hafi orðit með þeim. Gunnarr segir nú af slíkt, er hann veit. Bárðr mælti: „Allmjök undrumst ek, ef sá maðr er sokkinn niðr, ok hefir þetta allmjök verit öll hans gæfa, er hann komst úr höndum yðr, ok þykir mèr hann vánum bráðar við hafa skilizt, eða hafi þèr leitað í óbyggðum?" Gunnarr kvað leitað hafa verit alls staðar, þar sem ván þætti at hann mætti vera ok þó víðara. Bárðr mælti: „Hversu mundi hann fara á haf í mót vetri við fá menn á einni ferju. Ætla ek þèr betra þykkja,

at segja slíkt, er eigi verðr hefnt þorgils eða sona hans. Vil ek nú í vár snemma, at þú látir búa okkr skip, ok förum í óbyggðir, ok ætla ek þat visst, ef ek finn hann eigi, at sannliga sè hann týndr". Gunnarr kvað svá vera skyldu. Líðr nú af vetrinn; ok þegar ísa leysti, bjó Gunnar ferð sína; þeir höfðu ferju ok á VII menn. þeir halda nú í óbyggðir ok leita í hvern leynivág, ok finna ekki þat, at þeim þykki, sem mannavist muni verit hafa. Bárðr var manna skyggnastr. þeir koma aptan dags á einn fjörð mikinn, ok krækti ýmsa vega í landit; ok þar kom, at hann bytndi; þeir lögðu skipi sínu um nóttina í vík eina. Bárðr rær til lands á báti; hann gekk upp á höfða þann, er var við fjarðarmynnit, ok litast um; þá var ljós nótt; Vindgul[1]) lítið lá utan eptir firðinum; hann sá, hvar þangflota rak utan eptir, ok at botninum; þá hverfr hann alls; þetta undrar Bárðr mjök, ok gekk hann allt á framanverðan höfðann, ok sá, hvar annarr fjörðr hófst upp mikill, ok langr; ok þar sá hann dal ganga upp at fjöllum, fagran ok mikinn. Hann gengr nú aptr til skipsins; ok leggst niðr. Um morguninn spyrr Bárðr, hvárt þeir hafi kannat fjörð þenna allan. Gunnarr kvað þat vera. Bárðr kvaðst fara vildu, þar til er hann þryti með öllu, ok svá gera þeir. Koma nú þar, er höfðarnir gengu á víxl. þar skarst inn sund á millum. þat var allmjótt, en diúpt var þat mjök. þá laukst upp fjörðrinn í öðru sinni, ok var sá fjörðr mjök langr. þeir koma þá í eina vík um kveldit síðla. Ekki nenntu menn þá at kanna landit, ok lögðust menn niðr, allir nema Bárðr. Hann skaut báti til lands, ok gekk einn saman með sjánum, ok kom þar, at spóna hrúga mikil var. Hann tekr upp spónu nokkra ok hefir með sèr; Ferr síðan aptr til skips þeirra; en um morguninn sýnir Bárðr

---

[1]) þannig handritið gol; sbr. kul.

Gunnari spónuna ok mælti: „Aldri á æfi minni sá ek spónu jafnhagliga telgda, eða var Refr nokkut hagr?“ Gunnarr segir: „Hann var hinn mesti þjóðsmiðr“. Bárðr segir: „þat mundi ek ætla, at svá mundum vèr eptir Ref eiga at leita, sem hann væri lífs;“ ok nú ganga þeir frá skipi nokkurir menn. þeir geta brátt at líta, hvar virki stóð nær á framanverðum sævarbakkanum. þeir gengu þangat til, ok umhverfis, ok hyggja at því vandliga, ok þykkjast eigi sèt hafa jafnfagrt smíði. þat var mikit ok rammgjört, óbrætt, ok með 4 hornum. Hvergi sá þeir á því fellingar; var þat at sjá, sem ein fjöl. En er þeir hugðu þar at, kemr maðr fram á virkit; sá var mikill vexti. Hann heilsar Gunnari ok hann tók kveðju hans. Kenna þeir, at þar var Refr. Hann spyrr, hvert þeir ætluðu at fara. Bárðr svarar: „Eigi lengra fram á veg.“ Refr spyrr at tíðindum. Bárðr lèzt honum engi segja mundu; Refr sagðist þá ok eigi fregna skyldu meirr, en fallit þætti. Bárðr bað þá draga við at virkinu; en er umhverfum var kominn viðrinn, slá þeir í eldi. Kyndist þá skjótt viðrinn, ok þvínæst sjá þeir, at eldrinn slokknar. þeir draga at við af nýju í annat sinn at virkinu; þeir sá þá, at vatnfall mikit fór af virkinu, ok slokknar allr eldrinn. þeir leita umhverfum virkit, ok finna hvergi vatn. þeir báru þá at eldinn upp at virkinu, ok kom þar eigi síðr vatn úr fellingum, en niðri. Refr gekk fram á virkit ok mælti: „Sækist seint virkit, segir hann?“ Bárðr mælti: „Vel máttu því hælast um fjölkynngi þína, at vèr munum hèr frá hverfa at sinni; en ek heiti þèr því, ef þú þorir at bíða hèr annars várs, at vèr Gunnarr skulum yfir þínum höfuðsvörðum standa“. Refr mælti: „Eigi þèr nè Grænlendíngum verðr þat auðit, at standa yfir mèr dauðum; þótt ek sè hèr jafnmarga vetr aðra, nema þèr njótið yðr vitrari manna við“.

Eptir þetta snúa þeir Bárðr ok Gunnarr til skips

síns með sínum mönnum, ok halda til byggða. Komu þeir um haustið í vestr byggð, ok er Bárðr með Gunnari annan vetr eptir. Um sumarit bjó Bárðr skip sitt til Noregs, ok gefr Gunnarr hánum gjafir. Gunnarr sendi Haraldi konungi þrjá gripi; þat var hvítabjörn fulltíða, ok vandr ágætavel; annarr gripr var tanntafl, ok gjört með miklum hagleik; þriði gripr var rostungs hauss með öllum tönnum sínum. Hann var grafinn allr ok víða rennt í gulli. Tennrnar voru fastar í hausinum; var þat allt hin mesta gersimi. Bárðr lætr nú í haf ok ferst vel; kom hann í þær stöðvar, sem hann mundi kjósa. Hann færði Haraldi konungi margan grænlenzkan varning ágætan. Ferr Bárðr fyrir konung einn dag ok mælti: „Hèr er eitt tafl, herra, er yðr sendi hinn göfugasti maðr af Grænlandi, er Gunnarr heitir, ok vill eigi fè fyrir hafa, heldr vinfengi yðvart. Var ek með hánum tvá vetr, ok varð mèr hann góðr drengr. Vill hann gjarna vera vin yðar.“ Þat var bæði hneftafl ok skáktafl. Konungr leit á um hríð, ok bað þann hafa þökk fyrir, er slíkt sendi; „skulu vèr víst vináttu vára á móti leggja“. Eigi leið langt, áðr Bárðr lèt leiða inn í höllina hvítabjörn fyrir konung. Hirðinni fannst mikit um dýrit. Bárðr mælti: „Herra“, segir hann, „þetta dýr sendi yðr Gunnarr af Grænlandi“. Konungr mælti: „Mikit er um gjafir þessa manns við mik, eða hvat vildi hann af oss hafa fyrir slíkt. „Auðvitað er þat, herra; vinfengi yðar ok vitrlig ráð“. „Því mun þat eigi makligt“, segir konungr. Ok er á leið vetrinn, var þat einn dag, at Bárðr bað konung ganga í málstofu sína. Hann gjörði svá, ok er þeir komu þar, berr Bárðr fram hausinn fyrir konung með öllum blóma sínum, ok mælti: „Hinn göfgasti maðr, Gunnarr á Grænlandi, sendi yðr þessar gessimar“. Konungr hugði at hausnum vandliga, ok lèzt hánum sú sending þykkja ágæt, ok bað hann varðveita. Konungr mælti: „Seg þú

nú Bárðr, hvat býr undir sendingum þessum; ok veit ek nú, at fleira man undir búa, en vináttumál ein saman". Bárðr mælti: „Svá er, sem ek sagða yðr, herra; hann vill hafa vináttu yðar ok vitrligt ráð, til at vinna einn Ref, þann er Grænlendingum hefir unnit mikinn skaða". Konungr spyrr, hvaða Refr þat væri. Bárðr segir: „Þat er maðr íslenzkr, ok drap V feðga á einu kveldi, ok hefir síðan siglt í óbyggðir við sètta mann, ok gert þar virki úr stórtrjám; en vèr fundum hann ok bárum eld at virkinu, en alls staðar hljóp út vatn um virkit, ok slokknaði eldrinn; eigi hljóp síðr út vatnit uppi, en úr virkinu niðri, ok þar á milli; en vèr fundum engi vötn". Konungr mælti: „Mun þetta eigi sá Refr, er kaupskipit gjörði á Íslandi, ok hafði aldri áðr kaupskip sèt, ok á því skipi fór hann til Grænlands, ok er hann hafði búit þar nokkra vetr, var kveykt um hann illmæli mikit, ok hefndi hann þess svá röskliga, at hann einn vá þá fimm á einu kveldi?" Bárðar svarar: „Um einn munum vit ræða báðir". Konungr spurði, hversu þar væri landslagi háttað. Bárðr segir þat inniliga. „Slíkt eru þó menn", sagði konungr. Bárðr mælti: „Svá sagði hann at skilnaði várum, at engi mundi hann þaðan geta brott flæmdan". „Vera má þat", sagði konungr; „kann vera, at hann hafi öðruvís, um talat; en þat vil ek þèr ráða", sagði konungr, at þú farir eigi þangat optar, því at eigi kemst þú á brott, ef þú ferr optar". Bárðr svarar: „Ek hefi svá heitið Gunnari, at þat má ek eigi rjúfa". Nú skilja þeir sitt tal, ok líðr vetrinn; ok um várit býr Bárðr skip sitt, ok er þat var búit, gekk hann á konungs fund, ok mælti: „Herra", sagði hann, „hafit þèr nokkut hugsat nauðsyn Gunnars?" Konungr mælti: „Hugsat hefi ek nauðsyn þína, at þú farir eigi til Grænlands; því at óskylt er þèr, at gremjast þeim manni, sem þú átt ekki illt at launa. Varir mik, at þèr reiði illa, ef þú ferr".

Bárðr segir í öðru munu þèr sannspárri, herra". Konungr mælti: „Hitt ætla ek, ef þetta rýfst, at ek muni at fá sannspár. En ef þú vilt víst fara, þá mun ek nokkur ráð til leggja með yðr, ef ykkr Gunnari þykkir mikit undir." „Eigi ræði ek um þat", segir Bárðr. „Þess get ek þá", segir konungr, „at í þeim litla dal, er þar gengr upp at jöklunum, muni vatn vera; mun Refr hafa veitt vatnit; mun hann hafa felldan stokk í stokk, þar til, at vatnit kemr at virkis horninu neðsta. Þar ætla ek gerva tvá stokka, ok mun úr einum renna í hina báða stokkana, ok fylla svo hvárntveggja hlut virkisins. En virkit allt mun gjört stokkum holum; ok mun hverr stokkr lúta eptir öðrum, ok hverr mun upp frá öðrum, ok mun svá fylla virkit uppi ok niðri af vatninu; á þá leið hygg ek þar um umbúð veitta. En þar sem yðr þótti ekki verða mót á viðinum, er vatn fèll út alls staðar um hverfis virkit, þar hygg ek hann munu borat hafa langar borur, svá mjófar, at ekki mátti koma nema því trè, er þynnst verðr telgt; ok ætla ek hann þau trè hafa sett alls staðar í virkis stokkana; en í þessum blegðum ætla ek vera skauf, ok mun hann þeim þá munat hafa líttat, er hann vildi, at vatnit rynni úr virkinu; alla þessa blegðu mun hann sett hafa af smíði; ok mun eins konar trè verit hafa í blegðunum ok stokkunum. Nú er þat mitt ráð við Gunnar, at þèr farit norðr í vár á tveim skipum, tólf á hváru; aðrir tólf skulu skurð grafa fyrir norðan virkit, jafnlangan stundar nær, svá djúpan, at taki manni undir hendr, ok munu þèr finna umbúð lækjarins; ok ef svá er, þá stemmi þér lækinn, at hann beri eigi vatnit í virkit. En aðrir 12 beri við at virkinu. Síðan þætti mèr ván, at þèr megit brenna virkit fyrir vatns sökum. Nú hefi ek til lagt þau ráð,. at ek heiti því Gunnari, at annat hvárt mun vera, at Refr mun flýja virkit ok Grænland, eða mun Gunnarr fá handtekit hann. En

ósýnt mundi mèr þykkja, hvernig sá maðr mundi á brott komast, er svo væri við kominn, nema hann hafi mikinn vitrleik sèr í brjósti; en eigi vilda ek, at þú færir sjálfr Bárðr, því at ek veit eigi, hvat þú sækir at Refi". Bárðr segir eigi mega öðruvíss vera, ok þakkar konungi nú sín tillög.

Nú er þar til máls at taka, at Refr sitr í óbyggðum; synir hans gjörast hinir gildustu menn. Þetta sama vár sendir Refr þá suðr til byggðar, til móts við þá menn, er heitið höfðu Ref liðveizlu sinni, eptir því sem fyrr segir. Þeir bræðr fóru leyniliga, ok færr Gunnarr enga njósn af ferð þeirra; ok þegar þeir vissu orðsendingar Refs, þá urðu þeir vel við, ok fara þegar til móts við hann. Refr fór þá til ok lèt fram setja skipit, þat sem hann hafði haft af Íslandi; hafði þat haldit hrófi ok bráðit, svá at þat var þètt sem bytta. Refr lèt þá ferma skipit af grænlenzkum varningi, svörð ok tönn, ok skinnávöru; ok þegar skipit var búit, halda þeir því norðr í þann fjörð, er þar er næstr, ok lögðu þar skipinu í einn leynivág; þar var á Helga kona hans, ok Þormóðr fóstri hennar, ok Þormóðr son þeirra, ok þeir tólf menn er úr byggð kvámu. Refr sagði þá[1]) feðga enn skyldu byggja virkit um stund. Frá ferðum Bárðar er þat, at segja, at[2]) honum ferst einkarvel; tók hann Grænland, þar sem hann mundi kjósa. Gunnarr tók feginsamliga[3]) við Bárði. Setja þeir þegar til menn, at sjá fyrir varnaði Bárðar, en þeir fóru þegar í óbyggðir með jafn[4]) mörgum mönnum, sem konungr hafði á kveðit; þeim er þar nú kunnigt, ok[5]) rata þeir skjótt þann fjörð, er virki Refs stóð í. Gunnarr lendir skipi sínu í utanverðan fjörðinn;

---

[1]) at þeir feðgar mundu enn byggja virkit um hríð. [2]) at hann tók Grænland. [3]) vel. [4]) svo marga menn. [5]) Skotið inn eptir 586. Þeim er þar nú kunnigt, ok.

því at þat var þungt undir árum, ok hlaðit af vist þeirra. þótti þeim lèttara, at ganga inn í fjörðinn. þeir Bárðr reru inn mjök allt at virkinu; komu þeir Gunnarr nú ok þar. þeir ganga allir upp at virkinu; var þar engum hlut breytt, svá at þeir mætti sjá, nema grafinn var skurðr jafnsítt virkinu, þat er at sjó horfði. Skurðrinn tók á framanverðan sævar bakkann. þar var aðdjúpt mjök, ok ekki útfiri. þessi skurðr var ekki djúpari, en tók manni í bróklinda. Í því kemr maðr gangandi á virkit. þanna mann kenna þeir; var þar Refr. Hann heilsar þeim ok spyrr tíðinda. Bárðr kveðst hánum eigi mundu segja önnur, „en þú stendr þar feigum fótum á virkinu; eru þat", sagði hann, „lítil tíðindi". Bárðr ferr þegar til, ok lætr skurð grafa, ok því næst finna þeir þar stokka, ok eru vafðir næfrum. þeir höggva nú upp stokkana, ok hleypr þar úr vatn mikit. þeir Gunnarr draga nú við at virkinu, ok bera eld í; hleypr þar fyrst úr vatn mikit úr virkinu, en brátt tók virkit at þorna. Refr gekk þá fram á virkit, ok spurði, hverr þessi ráð hefði tillagt með þeim. Bárðr kvað hann þat engu varða. Refr mælti: „Ek veit ok", segir hann, „at engi yðar mundi þetta ráð fundit hafa, nema þèr nytið yðr hyggnari manna við". Bárðr svarar: „Hverr sem oss kenndi þessi ráð, þá skulu vèr þèr nú drottna í dag, ok þínum fjárhlut, ok hengja þik, er[1]) þú megir líta yfir þenna þinn bólstað, eða skaltú brenna", þá kvað Refr vísu:

þykkist þremja stökkvir,
(þat er líkindi at ríki)
reyndr í röskum höndum
ráð vort hafi báðum.
Fyrr get ek hins, en hjörva

---

[1]) þar 586.

hljómbeiðir mik veiði,
(hugðr mun hróðr) at brögðum
hringbætandi mæti.

Refr snýr þá inn aptr í virkit; þeir auka nú eldana, ok var nú eisa mikil, ok vátareykr úmátuligr, ok í því heyra þeir brökun mikla í virkit; ok er minnst varði, fellr sá virkis hlutrinn, er fram horfði at sjónum. Þar var svá gegnt til ætlat, at virkit fèll í skurðinn, á framanverðan sævar bakkann. Þat var svá slètt, sem ein fjöl; en í því er virkit fèll, rann þar eptir fram skip á hvelum, ok þegar fram á sjóinn. Þeir Refr draga þegar segl upp; er á gol nokkut norðan eptir fjöllunum. Undir þeim hluta virkisins, er fèll, urðu undir fjórir menn Bárðar, ok höfðu þegar bana. Bárðr heitir nú á sína menn; hlaupa þeir til skipa átta; vinda þeir þegar upp segl sitt, ok róa undir slíkt, er þeir mega; dró hann nú brátt eptir þeim Refi. En Gunnarr kannar nú virkit ok var þat eitt í virkinu, er engi hirti at hafa. Sneri hann þá út með firðinum með sínum mönnum til skipsins. Refr sèr, at Bárðr mun skjótt eptir koma. Þá mælti Refr: „Nú skulu vèr fyrst hleypa niðr segli váru; en mik varir, er hitt skipit skríðr fljótt, at þeir fái þat eigi stöðvat, en þeir vita enga ván at vèr munum bíða, ok mun þeirra skip renna fram á annat borð. Þá skaltu, Steinn“, sagði Refr, „höggva höfuðbendur þeirra, en þú Björn skalt dafla í árum, at þeim sýnist, sem vèr róum undan í skerpingi[1]) en þó lát sem skip várt muni, sem minnst skríða[2]). Refr hjó nú hvel undan skipi sínu, ok því næst tók hann spjót eitt mikit ok hvatti[3]) í ákafa. Nú er at segja frá Bárði, at þeir gjöra bæði, sigla ok róa, en varði eigi, at Refr mundi bíða; rennir skip þeirra fram hjá skipi Refs. Í því skýtr Refr spjótinu til Bárðar.

---

[1]) ákafa. [2]) en þú lát sem minnst ganga. [3]) lítit ok hvasst.

Flýgr þat þegar í gegnum hann, ok nísti út við borðit. Steinn höggr allar höfuðbendur þeirra; fór þá seglit útbyrðis með öllum sínum reiða, ok við því búit, at hvelfa mundi skipinu: drógu þeir Refr þá upp segl sitt, ok voru brátt mjök fjarri, ok fóru þeir Refr þá leið sína, þar til er þeir komu út úr firðinum. Skipverjar Bárðar gátu borgit reiða sínum, ok lögðu þeir þá at landi undir nes eitt. Gunnarr ok hans menn sáu, at Refr sigldi út eptir firðinum; þóttist hann þá vita, at sá einn mundi hafa fundr orðit þeirra Bárðar, at hann mundi ekki orð eptir senda. Bað hann þá sína menn flýta sèr til skipsins, ok komast fyrir fjarðar mynnit. Þeir gjöra svá; tók nú at líða dagrinn; þá er Refr ok synir hans komu úr sundinu, ok í sundr lauk firðinum í annat sinn, gátu þeir at líta, hvar Gunnarr reri frá landi, ok hans menn, sem mest máttu þeir. Tók þá mjök at dimma af nótt, en tunglsljós lítit. Refr mælti þá: „Vèr skulum sækja róðr sem ákafast, en þú, Björn“, sagði hann, „skalt láta síga segl várt æ smám, ok um síðir fella“. Þeir gjöra nú svá. Gunnarr mælti þá til sinna manna: „Klækila sækist yðr róðrinn; vèr várum áðr svá nær þeim, at ek hugða, at vèr mundim skjótt taka þá, en nú firrast þeir oss svá, at lítil þúfa þykir skip þeirra at sjá. Mun þar vera vindr meiri, mun þá því bera undan. Nú munum vèr snúa til lands, ok rekast eigi à hafsmegin um nætr eptir Refi“. Þeir gjörðu nú svá. Um morguninn komu menn Bárðar til Gunnars, ok sögðu sínar eigi slèttar. Höfðu þeir þar lík Bárðar sneri Gunnarr nú aptr til byggðar, ok undi illa við sína ferð; var þar ok eitt allra manna orðtak, at fár mundi reknar verri fyrir einum manni. Hásetar þeir, er verit höfðu með Bárði, gjörðu skjót varnings skipti; sigldu þeir í Noreg um haustið, ok er þess eigi getið, at Gunnarr sendi Haraldi konungi neinar gersimar; sögðu þeir konungi lát Bárðar ok við-

skipti þeirra Refs. Konungi þótti farit hafa eigi fjarri getu sinni.

Refr ok synir hans sneru þá til skips síns, ok váru þar hvárir öðrum fegnir; bjuggust þeir síðan til hafs, ok þegar þeir váru búnir, sigldu þeir á hafi. Þeir höfðu útivist langa ok bága. Þeir tóku Noreg um haustið, ok komu þar fyrst við land, sem heitir Æðey. Landsmenn spurðu. hverr skipi því stýrði. Hann nefndist Narfi, ok lèzt vera íslenzkr maðr. Narfi spurði eptir, hvar konungr væri í landinu. Landsmenn sögðu, hann væri[1]) í Þrándheimi. Æðey er hálfa tylft suðr frá Þrándheimi. Narfi sigldi þaðan inn til meginlands; leggr þar skipi sínu í einn leynivág; lætr þar eptir föruneyti sitt, en leigir sèr sexæring einn ok leiðsögumann. Synir hans fara með hánum ok kona hans; menn hans skulu gæta þar skips. Eigi er getið um ferð Narfa, fyrr en hann kemr til kaupbæjar í Niðarósi, ok leigði sèr þar skemmu eina. Þau dvöldust þar nokkrar nætr. Narfi bauð þeim á varygð mikla, at þeir gengi aldri svá frá skemmunni, at Helga væri þar ein eptir. Hann lèt gjöra sèr kufl blán; hafði hann ok jafnan svarðreip um sik; skegg hafði hann ok látið binda sèr hvítt, ok lèzt hann vera gamall kaupmaðr; gekk nú jafnan svá búinn um torg; spjót hafði hann í hendi á lágu skapti, ok járni vafit skaptið. Konungr var þar í bænum ok mikit fjölmenni. Hirðmaðr konungs hèt Grani, ok var kallaðr Skálp-Grani; fríðr maðr sýnum ok barst á mikit at vápnum ok klæðum. Grani var vífinn ok kvennsamr; gerði hann mörgum í því mikla skapraun; var hánum þat nú þolat, er hann hafði konungs traust. Svá bar til einn dag, at konungr hafði þing fjölmennt í bænum; ok var mönnum tilblásit almenniliga. Narfi gekk til þings, ok synir hans, Steinn

---

[1]) sitja.

ok þormóðr. Björn var eptir hjá móður sinni, ok eigi því síðr var hánum forvitni á, hvat talat var þar á þinginu, ok fór hann þangat. Narfi þekkir Björn, ok snýr at hánum ok spyrr, hvat eptir væri hjá Helgu[1]). Hann segir, at ekki var. Narfi snýr nú aptr til skemmunnar. Litlu síðar, en Björn var í brott genginn, kemr maðr í skemmuna; sá var í blám klæðum, ok lèt mikit yfir sèr. Helga heilsaði þeim manni, ok spyrr at nafni; hann lèzt heita Grani, ok vera hirðmaðr Haralds konungs. „Er ek því hèr kominn", segir hann, „at ek vil mèr konu kaupa". Hún bað hann ganga til þess í annan stað. Grani kvað þat úsæmiligt, at gamall maðr ætti unga konu svá fríða ok fagra. Hún kveðst mundu vera fyrir hánum sjálfráða. Grani kveðst mundu vera ekki færavandr, ok tók til Helgu. Hún sprettr upp ok verst; slær þar í glímu ok í því kemr Refr til gluggans, ok sèr mann. En er Grani[2]) sèr skuggann bera fyrir gluggann, þá slízt hann úr höndum Helgu, ok leitar til dyranna. .Narfi vildi ok komast fyrir dyrrnar. Grani komst þá út fyrr, ok hefr þegar á rás. Helga hljóp ok til dyranna, ok vill þrífa til Narfa, „ok láttu Grana fara", segir hún; „því at hann hefir engri þinni eign spillt". Narfi sleit Helgu af sèr, ok hljóp eptir Grana, ok eggjar hann at bíða; hann hleypr eigi at síðr, þar til at hann kemr at skíðgarðshliði einu; þá var skammt í millum þeirra; Grani sèr þá, at hann mun tekinn verða. Hann snýst þá við ok mælti svá: „Hygg þú at", sagði hann, „hvat þèr er gjöranda; þó þú drepir mik, þá er þat dauði þinn; en svá lengi sem þú ert hèr í bænum, þú skal ek þèr aldri mein gjöra". Hann baðst undan, sem hann kunni. Narfi mælti; „þat er satt", sagði hann, „at þèr

1) ef nokkurr væri eptir hjá Helgu. 2) Leiðrjetting eptir 586; í 471 stendur Narfi, sem er rangt.

er alls kostar illa gefit; þú berst á meira en menn, ok þykist mikill fyrir þèr, ok gjörir mörgum skömm, en nú veiztu eigi, hversu þú skalt láta, eða þèr breyta; svá ertu hræddr; bústu svá við, fyrir því at ekki mun nú tjá at friðmælast". Narfi lagði þá til hans spjótinu. Grani hafði öxi í hendi; laust hann af sèr lagit, ok fór svá nokkurum sinnum. Narfi varð hánum harðskeytr ok lauk svá, at hann rak í gegnum hann spjótið. Hann dregr hann þá upp undir skíðgarðinn, meðan hann var í fjörbrotunum, ok hylr hræ hans þar. Narfa kemr nú í hug, at eigi mun ráð at myrða manninn, ok bezt muni fallit, at segja konunginum sjálfum. Gengr Narfi nú fyrst heim til skemmunnar, ok biðr Helgu taka föng þeirra, ok hafa[1]) til skips ok svá leiðsögumann þeirra. Narfi gekk nú þangat til, sem þingit var. Þar var allmikill mannfjöldi ok þröng. Narfi þröngdist nú fram millum manna, þar til at hann kom fyrir konung. Í því bili talaði konungr um nauðsynjar manna. Narfi tók eigi því síðr til orða, ok mælti svá. „Herra konungr", sagði hann, „vit Sverðhúss-Grani urðum saupsáttir í dag, er hann vildi fjallskerða konu mína. Ek stórkeraldaða hann í gegnum stràbeygis augat; þá langhúsaði[2]) hann, herra; þá langhúsaða ek herra. Þá hreiðrballaða ek hann, herra, en hann marghrossaði á mót; þá fagrröggvaða ek hann, herra, en hann skipskeggjaði þá við. Þá lynghnappaða ek hann, herra, undir einn skíðgarð, skammt[3]) í braut, ok váðvirkta ek yfir hann at lyktum". Narfi snýr þegar í brott ok til skips síns, ok hvatar nú mjök sinni ferð; lètu ganga um kveldit ok um náttina suðr með landi, þar til er þeir komu til skips Narfa. Þeir sigldu þá þegar til hafs.

---

[1]) skjótt 586. [2]) þá langhúsaða eg herra, þá langhúsaði hann herra 586. [3]) skammt í burt þaðan 586.

13 Nú er at segja frá Haraldi konungi, at hann er staddr á þinginu, sem fyrr var sagt. En meðan Narfi flutti fram sitt eyrindi, þá lèt konungr eigi sína ræðu falla, ok engi maðr fann, at hann gæfi gaum at, hvat Narfi sagði; ok er hann hafði lyktað sínu eyrindi, lèt konungr blása til hljóðs, ok mælti síðan. „Hverr var maðr þessi, oss ókunnr, er stóð fyrir oss um hríð, í blám kufli, ok svarðreip mikit um sik, ok spjót í hendi? eða hvaðan er hann?“ Menn sögðu, at þeir vissu aldri, hvaðan hann var; sögðu hann hafa verit þar í bænum nokkura daga, ok leigt þar skemmu eina ok nefnzt Narfi. Konungr mælti: „Hvat þótti yðr hann segja?“ þeir kváðust þat aldri vita, at þat væri annat, en vitleysa ok hègómi.

„Vera má at svá sè“, segir konungr, „en ekki varð mèr maðr sá lítill fyrir augum; eða hvar er Skálp-Grani hirðmaðr várr; kalli hann fyrir mik“. þeir gjörðu svá, ok fundu hann eigi. Konungr mælti þá: „Verri efni munu í vera: maðr þessi tók svá til orðs. Vit Sverðhúss Grani urðum saupsáttir í dag; hann vildi fjallskerða konu mína. þess get ek“, sagði konungr, „at hann muni átt hafa við hirðmann minn Skálp-Grana[1]), því at skálprinn er hús sverðsins; mun hann hafa farit um herbergi, at leita sèr kvenna; má vera, at þá hafi fyrir orðit kona Narfa þessa. Sá er drykkr á Íslandi, er mysa heitir, er þat allt eitt mysa ok saup ok drykkr; nú munu þeir hafa orðit missáttir. Hann sagði hann hafa viljat fjallskerða konu sína; þar hefir hann viljat hvíla með henni, því at þá er kallat, at konur sè giljaðar, en gilin eru fjallskörð. þá kveðst hann stórkeralda hann gegnum strábeygisauga; þat er rètt atkvæði. Sá, eru þau keröld stór; þá viti

[1]) Leiðrètting, fyrir Skálphúss-Grana, sem í handritunum stendr.

þèr, at vindr heitir stråbeygir, en vindauga á húsum, ok hefir hann sèt hann um glugginn á herberginu, er þau hafa saman átt. „þá langhúsaða ek, konungr“, sagði hann; „ok þá langhúsaði hann“. Rann heitir langt hús, ok hefir þá hvárrtveggi þeirra runnit; mun hann hafa hlaupit með fram skemmu veggnum hart, er hann hefir sèt sameignina. þat mun Grani heyrt hafa; má vera at þá hafi hann staðar látið nema athöfn þá, er hann hafði; mun hann þá hafa forðat sèr. „þá hreiðrballaða ek hann“, kvað hann; þá mun hann hafa eggjat hann at bíða; því at egg er hreiðrböllr; „en hann marghrossaði við“; en stóðhross heita, ok eru mörg saman jafnan, mun hann þá hafa staðar munit; þá kveðst hann fagrröggva hann, „en hann skipskeggjaði við“. Skikkjur eru þær á Íslandi, er feldir heita; er þat ýmist kallat á feldinum rögg eða lagðr; nú mun hann hafa vikit svá til málinu at kalla lagð. Mun hann hafa lagt í gegnum hann, er hann kveðst fagrröggva hann; „en hann skipskeggjaði við“; borð heitir á skipi, þá mun hann barizt hafa, er hann var í fjörbrotunum. „þá lynghnappaða ek hann undir skíðgarð einn“, sagði hann, „skammt í braut“; byrðr heitir lynghnappr, ok hefir hann þá borit hann undir skíðgarðinn; þá kveðst hann váðvirkta[1]) yfir hann síðan; er þat málsháttr á Íslandi er konur lúka vef; mun hann þá hafa hulit hann. Nú vil ek“, sagði konungr, „at þèr leitið, at þessum mönnum, bæði at hinum vegna, ok svá vegandanum“; gjörðu menn nú, sem konungrinn bauð; fannst Grani nú dauðr, en Narfi fannst hvergi. Um morguninn lèt konungr blása til móts ok sagði svá: „þau tíðindi urðu hèr í gær, at því er betr, at slík eru sjaldan, er hirðmaðr várr var veginn; veit ek eigi þess íslenzks manns ván, at þat mun þora at gjöra hèr undir handarjaðri várum.

---

1) virkja.

Nú mun ek geta til, hverr þessi maðr er. Hèr mun kominn sá sami Refr, er Grænlendingum hefir gjört mikit illbýli". Eptir þat nefndi konungr menn til, at leita þessa manns, bæði á sjó ok á landi; fóru þeir eptir því sem konungr gjörði ráð fyrir. Nú er at segja frá ferð Refs, at þeir lèttu eigi fyrr sinni ferð, en þeir komu til Danmerkr. Refr sótti þegar á konungs fund, ok sagði hánum allan vöxt á þarkomu sinni, ok bað hann viðtöku. Konungr sagði svá, at hánum þætti svá verða í hans frásögn, sem nauðir hefði til rekit víðast um harðræði hans; „lízt mèr svá á þik ok sonu þína, sem gott muni brautargengi í yðr. Nú af því, at þú hefir várn fund sótt, hefir þú ok þann varning flutt í land várt, sem oss er nú ekki um hríð mjök auðfengr sakir várra fjandmanna, sem er svörðr til reiða skipum várum, þá munu vèr við yðr taka; mun ek fá yðr eignir ok bú, þar sem oss líkar, en synir þínir, Steinn ok Björn, skulu vera með oss; munu sæmdir þeirra þar við liggja, hvert mannkaup er mèr þykir í þeim þann tíma, er vèr reynum; en þormóðr son þinn skal vera með þèr. Refr kveðst gjarna vildu, at konungr sæi einn fyrir; „en þó munum vèr fyrst, herra, sjá fyrir peningum várum, ok búa þá bræðr til yðar". Konungr kvað svá vera skyldu. Fóru þeir Refr þá til skips síns; kom þat upp; at þeir hefði of fjár, í svörð ok tannvöru, ok skinnavöru, ok mörgum þeim hlutum, er fásènir váru í Danmörku af grænlenzkum varningi. þeir höfðu V hvíta björnu, L fálka, ok XV hvíta. þar er nú til at taka, at skip þat kom þetta haust af Grænlandi, er Bárðr hafði stýrt. Spyrr konungr nú víg Bárðar, ok alla atburði þá, er þar höfðu orðit. Konungr lætr nú blása til móts einn dag, ok á því móti talaði Haraldr konungr, ok sagði mönnum víg Bárðar hirðmanns síns af Grænlandi; „ok þeir atburðir", sagði konungr, „sem hèr urðu um víg Grana; veit ek víst nú, at sá hinn sami Narfi hefir verit

Refr Steinsson; mun ek lengja nafn hans ok kalla hann Króka-Ref. Nú þó at hann sè mikill fyrir sèr, þá verðum vèr þó at geyma várrar tignar, at leiða öðrum at drepa niðr hirð vára, ok af því gjörum vèr hèr í dag þenna mann útlægan fyrir endilangan Noreg, ok svá vítt. sem várt ríki stendr“. Eptir þat nefnir konungr Eirík bróður Grana, ok með hánum LX manna, at fara suðr til Danmerkr, at sitja um líf Refs.

Eiríkr bjó nú ferð sína, ok þeir menn, sem hánum skyldu fylgja; lèttu þeir eigi sinni ferð, fyrr en þeir komu til Danmerkr, ok lágu við Jótland í góðri höfn nokkura daga. Sem þeir komu þar, þá kom af landi ofan karl einn gamall við tvá stafi ok í vándri heklu, ok hvítt skegg af hærum. Þeir fögnuðu hánum vel. Þeir spurðu karl at nafni. Hann nefndist Sigtryggr. Þeir spurðu hvar ætt hans væri. Hann kveðst vera norrænn at hinum fyrrum ættum, en verit nú í Danmörk um stund, ok orðit þar fátækr. Þeir kváðu hann mundu vera góðan karl, ok kunna þeim margt at segja. Hann spurði, at hverju þeir vildi spyrja. Þeir kváðust vildu forvitnast til þess manns, er Refr hèti, ok mundi þar hafa komit um sumarit á skipi við nokkura menn. Sigtryggr mælti: „Mun mèr þat til nokkurs vera, at segja yðr þat, er þèr vilit vita?“ Þeir kváðu hánum eigi mundu matskort um nokkura daga. Sigtryggr mælti: „Ekki mun ek þetta til matar eins gera, at segja yðr til Refs, því at ek veit af umræðu manna, at þèr munið sitja um líf hans. Nú mun ek gjöra yðr þann kost, at fylgja yðr, þar til þèr sjáit Ref ok sonu hans, ok þá XII menn, sem hánum hafa fylgt í sumar, enda skal ek eignast eyri silfrs af hverjum yðrum, ok einn kostgrip af skipi yðru, enda skulut þèr skyldir at flytja mik til Noregs, ef ek vil, á yðrum kosti. Skyli þèr ok mik láta ráða fyrir ferð várri, þar til er vèr finnum Ref“. Þessu kaupa þeir saman. Sigtryggr

mælti: „Nú skulum vèr taka tjöld af skipi váru þegar í stað, ok róa fram um nesit“. þeir gjörðu svá, ok lögðu þar at landi. „Nú mun ek ganga upp“, sagði karl, „ok tveir yðrir menn með mèr, ok vita, hvers vèr verðum vísir. þeir gjörðu nú svá; var þar skógr nær; ok er þeir komu skammt í skóginn, hlupu þar at þeim menn með vápnum; váru þar synir Refs ok þrir XII saman. Váru hinir norrænu menn handteknir báðir. Sigtryggr kastar þá tötrunum, ok svá skegginu; gengu þeir þá annan veg til sjóvar; flutu þar fyrir tvö langskip, ok tvö-hundruð manna; hafði Sveinn konungr sent þetta lið til Refs, þegar hann vissi, at njósnarmenn váru til hans gjörvir. Refr ok hans menn vápnuðust, ok veittu Eiríki atróðr ok hans mönnum, ok er þeir fundust, urðu þar skjót umskipti, at menn váru allir drepnir af Eiríki, nema X váru handteknir. Refr mælti þá: „Nú er svá komit, Eiríkr, at hèr er kominn Sigtryggr fèlagi þinn ok kaupanautr, er þú fannst í gærkveld; hefi ek nú efnt þat, er ek hèt · þèr, at nú máttu hèr sjá Ref ok sonu hans. Nú af því, at ek drap bróður þinn, þà vil ek nú gefa þèr líf, ef þú vilt sverja þat, at sitja aldri um líf mitt, nè sona minna. Skaltu ok segja Haraldi konungi allt hit sanna um várn fund“, segir hann, „ok at nú hefi ek launat hánum nokkuru fjörráð þau, er hann lagði til með þeim mönnum, er líf mitt vildu hafa“. En Haraldi konungi mun ekki auðit verða, at láta drepa mik. Skal hánum sá einn óþarfari í Danmörk en ek, er minna má“. Eptir þàt sór Eiríkr eiða þessa. Refr fèkk þá Eiríki tólfæring einn, ok þar með þá hluti, sem hann þurfti at hafa at nauðsynjum. Refr tók til sín langskip þat, er þeir höfðu þangat haft, ok færði Sveini konungi; lofaði konungr mjök tiltæki Refs; kvað þau vera bæði harðmannlig ok drengilig. „Skaltu nú ok þetta nafn hafa“, sagði Sveinn konungr, „hèr í voru ríki, at heita Sigtryggr; því

at hitt er hèr fánefnt; en at nafnfesti viljum vèr gefa þèr gullbring þenna, er stendr mörk; þar með skaltu þiggja af oss XII bú vestr á Vendli, þau er þú kýss, af því at ek skil, at þú munir vera stórvitr maðr". Refr þakkaði konungi með fögrum orðum höfðingligar gjafir, ok alla þá sæmd, er hann veitti hánum. Refr fór nú til búa sinna, er konungr hafði gefit hánum, ok Helga kona hans ok Þormóðr sonr þeirra; gjörðist Sigtryggr þar hit mesta stórmenni; ok er hann hafði þar setit nokkra vetr, bjó hann ferð sína út í Rómaborg, ok sótti heim hinn helga Pètr postula, ok í þeirri ferð fèkk Sigtryggr sótt þá, er hann leiddi til bana, ok er hann jarðaðr á ríku munkaklaustri út í Frakklandi. Steinn ok Björn váru með Sveini konungi lengi, ok virði hann þá mikils, svá at hann fèkk þeim göfug kvánföng í Danmörk, ok staðfestust þeir þar báðir, ok þóttu ágætismenn. Frá Steini er kominn Afsalon erkibiskup, er var um daga Valdimars konungs Knútssonar. Þormóðr, son Refs, fór[1]) til Íslands eptir fall Haraldar konungs, ok tók við landi á Kvennabrekku ok kvændist á Íslandi, ok er margt göfugra manna frá hánum komit.

Lúku vèr þar Krókarefssögu.

---

[1]) Bætt inn í eptir 554; en það vantar í 471.

Þorgrímr hèt maðr; hann bjó, þar sem nú heitir á Hörgslandi; hann var kvángaðr maðr, ok átti tvá sonu við sinni konu; hèt annarr Grímr, en annarr Þorsteinn; þeir voru údælir ok uppivöðslumiklir, ok újafnaðarmenn hinir mestu um allt þat, er þeir máttu. Helga hèt systir þeirra, en dóttir Þorgríms; hún var væn kona ok kurteis, svá at eigi þótti þar í sveitum betri kvennkostr. Þorgrímr hafði goðorð milli Jökulsár og Lómagnúps. Hann fór illa með sínu goðorði; hann tók upp gótz fyrir bændum, bæði yxn ok hesta; varð hann af þessu öllu saman mjög úvinsæll. Enn verðr fleiri menn at nefna til sögunnar.

Gríss hèt maðr í Hörgsdal; hann átti ok tvá sonu; hèt annarr Hrafn, en annarr Jökull; þeir váru stórir menn ok sterkir, ágjarnir ok illir viðreignar; þeir váru miklir menn, ok vinir Þorgrímssona. Þorbjörn var bóndi nefndr, ok bjó at Keldugnúpi. Hann var kvángaðr maðr ok átti tvá sonu við konu sinni, er svá hètu, Helgi ok Gunnarr; var Helgi skartsmaðr mikill hæfilátr ok hversdagsgæfr. Bróðir hans var hánum úskaplíkr; hann lagðist í elda skála; unni faðir hans hánum lítið, því at hann gjörði slíkt mjök í móti hans vilja. Varð hann mjök úþokka sæll af alþýðu fyrir þetta sitt tiltæki; var hann nú kallaðr af þessu um allar sveitir Keldugnúpsfífl.

Geirr hèt bóndi; hann bjó á Geirslandi; kvángaðr var hann ok hèt Geirdís kona hans, en Ingibjörg dóttir. Geirr hafði 10 þræla til vinnu. Kolr hèt sá maðr, er fyrir þeim var. þat var hans iðn, at geyma fjár, vetr ok sumar; kom hann aldri inn undir sótugan rapt; en aðrir þrælar hans höfðu þat verk, at höggva stóra hella á bæ Geirs, at geyma þar í fènað ok fóðr. Kona hans er nefnd þórdís; hún bjó at Fossi, ok átti auð fjár. þórdís var fjölkunung. Mikið vinfengi var í milli þeirra þorgríms ok þórdísar. þótti hánum eigi ráð ráðit, nema hann rèðist við hana um. — Örn hèt maðr; hann bjó at Vatnsenda. þau váru systkin Örn ok þordís; váru þau ok mjök lík at skapsmunum. Hann var löngum með þeim þorgríms sonum ok bætti lítið um fyrir þeim. Leikar voru uppteknir á Hörgslandi; sótti þangat margt manna um hèraðit. Urðu þeir þorgrímssynir öllum ofsterkir, þeim sem at leikunum váru. Ekki fóru þangat þorbjarnarsynir. þorgrímr hafði þræl, þann er Svartr hèt; hann var með þeim bræðrum; flestum varð hann ofsterkr; meiddi hann margan mann, en deyddi suma. Urðu þeir af slíku óvinsælir þorgrímssynir; fór nú svá fram nokkra stund. Einn dag var þat at Helgi stóð snemma upp; veðr var á hvasst á norðan með frosti. þorbjörn spurði hann hvert hann ætlaði. Helgi sagði, at hann ætlaði til leiks. þorbjörn svarar: „Eigi er þat mitt ráð, og vilda ek, frændi, at þú færir hvergi; því at þèr er eigi hent við kappi þeirra ok uppivöðslu". Helgi sagði þó fara mundu. þorbjörn mælti: „Bið þú Gunnar bróður þinn, at fara með þèr". „Ekki kann ek at biðja hann fylgdar", sagði Helgi. Síðan fór Helgi til leiksins. En er hann kom, báðu þeir hann til leiks, en Helgi vildi eigi at vera. En er kveldaði, fór hann heim. þorbjörn spurði hann at um leikinn, „eða vartu eigi at leiknum"? „Nógir váru þar sterkari. Nú leið af nóttina, ok bjóst

Helgi snemma til leiksins annan morgin, ok gekk þá til eldahúss. Gunnarr spurði, hverr þar færi. „Hèr er kominn bróðir þinn, og vilda ek, Gunnarr frændi, at þú veittir mèr brautargengi, ok færir til leiks með mèr í dag“. Gunnarr svaraði: „Ertu nú þá búinn?“ „Þat er satt“, segir Helgi. Gunnarr stóð þá upp og var eigi sinniligr. Helgi mælti: „Far þú ok fá þèr klæði“, því at veðrit var kalt. Gunnarr kvaðst eigi mundu taka klæða skipti. Síðan fara þeir leið sína, þangat til er þeir koma á Hörgsland. Eigi var til leiks tekið; þeir bræðr Þorgrímssynir gengu í því fram í dyrrnar, ok heilsuðu þeim Þorbjarnarsonum, en þeir bræðr, Helgi og Gunnarr, gengu til stofu. Jökull mælti: „Ok er hèr komit eldhússfíflið frá Keldugnúpi; eða hvat mun þat hingað vilja“? ok gerðu þeir at Gunnari mikinn gys. Eptir þat var farit til leiks. Þá bað Grímr þá bræðr, at þeir skyldi at vera; en Helgi svaraði: „Ekki er okkr þat hent“. Grímr sagði leikfall verða mundu, ef þeir væri eigi at. Helgi sagði þá ok eigi skyldu þat vera. Síðan var til leiks farit, og hyggja Þorgrímssynir gott til, ok skipa til glímna, og skyldi Gunnarr glíma við Svart, en Helgi við Jökul; var þessu næst til gleði farið, ok kom þar at, er þeir Helgi og Jökull stóðu upp og gengu á gólf. Var þar búkamunr mikill; því að Jökull var stórr vexti, en digr. Með mætti glímdu þeir lengi, svo að varla mátti í milli sjá, hvárr falla mundi; en þó varð þat um síðir, at Jökull fèll. Þá varð óp mikið og hlátr; en Helgi gekk til bekkjar aptir þat. Þá stóðu þeir upp, Gunnarr og Svartr, og váru þar báðir sterkir, en þó ætluðu allir, at Gunnarr mundi eigi við hafa. Þeir tókust á sterkliga; varð þeirra atgangr bæði harðr og langr; þóttust menn eigi vita mega, hvárr þar mundi falla þá mælti Gunnarr við Svart: „Hefir þú fram lagt allt þat, er þú hefir til?“ „Það er satt“, sagði Svartr. Síðan tók Gunnarr hann upp á bringu sèr,

ok gekk með hann innar að pallinum, þar sem þorgrímr sat, ok setti hann niðr á fótskörina, svá at í sundr gekk í hánum hryggrinn. Síðan gekk Gunnarr at bekknum og settist niðr, en Svartr var fram borinn; fóru menn nú til leiks sem áðr. Ekki bar fleira til nýlundu um daginn. Fóru þeir heim bræðr um kveldit. þorbjörn spurði þá at, hversu leikrinn hafði framfarit um daginn. þeir sögðu af hit ljósasta. þorbjörn svarar: „þá fór, sem mik varði, at þit mundut eigi mega hjá sitja, og munuð þit þessa margan dag iðrast". þá mælti Helgi: „Fleira þurfum vit nú með, en átalna einna. þorþjörn mælti: „þat ætla ek, at margs manns blóði verði hèr fyrir út hellt fyrir þessa ykkar tiltekt". „Fari þat, sem má", sagði Helgi, og hræðumst vit þat eigi". Enn næsta morgun stóðu þeir bræðr upp snemma um morguninn. þá mælti þorbjörn: „Hvert skulut þit nú fara", sagði hann. Helgi svarar: „Hvat mun þik þat varða? Ekki muntu með okkr til leggja gott". Hann mælti farit hvergi í dag. því að eigi hlýðir þat fyrir þeim bræðrum þorgrímssonum. Hafa þeir setið þeim eigi lengi, er þó hafa minna til gert við þá bræðr, en þit, og því vil ek þit farit hvergi í degi". þá mælti Helgi: „Hvert ráð viltu þá leggja með okkr bræðrum?" þorbjörn mælti: „þit skulut fara til þess manns, er þorgeirr heitir; hann býr í Murutungu. Hann er mikill vin minn. þar skulut þit í vetr vera með hánum".

þeir bræðr fara leið sína, þar til þeir koma í Murutungu. þat var síð um kveld. þeir drápu á dyrr. þá var til hurðar gengit, og spurt, hverr kominn væri, en bræðr sögðu til sín, og spurðu, hvárt þorgrímr væri heima. Sá sagði þat satt vera. Helgi mælti: „Seg þú hánum, at vit vildum finna hann. þessi gerði, sem hann bað. Síðan gekk þorgeirr út, og bauð þeim þar vera um nóttina. Um morguninn eptir var þorgeirr mjök snemma á ferli,

og talaði til þeirra bræðra, að þeir skyldi upp standa. þeir gerðu, sem hann bauð; ganga þá út og vestr um bæ allir, og svá ofan at á einni, og svá síðan eptir árgljúfrinu, og þar til þeir koma at einstigi nokkru. þar gekk þorgeirr upp, en þeir bræðr eptir, og komu þá upp í helli stóran. þá mælti þorgeirr: „Hèr skulut þit bræðr vera í vetr, því at eigi má ek svá halda ykkr, at þorgrímssynir viti eigi. En ek skal koma til ykkar hvern dag, ok segja tíðindin, þau er til kunna at bera. Eptir svá talat fór þorgeirr heim, en þeir bræðr váru eptir í hellinum. En frá þorgeirssonum er þat at segja, at þorsteinn talaði við bróður sinn: „Vit skulum fara til Keldugnúps ok drepa þá Helga og Gunnar fyrir sín illvirki". Svá gera þeir, fara til Keldugnúps með 12 menn ok báðu þorbjörn selja fram sonu sína. „Eigi eru þeir hèr", segir hann. En Grímr bað hann láta uppi rannsókn; „muntu vilja leyna þeim, því at þeir eru hèr". þá mælti þorbjörn: „Gangi bræðr þá tveir inn ok kannið bæ minn, ok vildi ek þó engu spilla láta, því er ek á. En þeir bræðr gengu þá um ok könnuðu bæinn þorbjarnar, ok fundu þeir eigi at heldr þá þorbjarnarsyni, sem ván var at; ganga út síðan ok stíga á hesta sína ok ríða á burt síðan, ok svá heimleiðis. Líðr nú á vetrinn, ok frèttu þeir bræðr eigi til þeirra þorbjarnarsona. þat bar einn dag til, þá er þeir þorbjarnarsynir váru í helli sínum, at þræll Geirs gekk at fè sínu þeim megin árinnar, sem hellir þeirra bræðra var í. Hann sá þá bræðr, því at þeir höfðu þá gengið frá hellisdyrunum, Síðan kom þrællinn heim um kveldit síð. þá frètti Geirr hann tíðinda, en hann kvaðst eigi kunna at segja, „því at mèr þykja þat engi tíðindi, sem ek sè". Hvat hefir þú nú sèt í dag?" segir Geirr. Kolr sagði þá: „Sá ek þá bræðr, Helga og Gunnar, í helli einum norðr með ánni. „Varla þyki mèr þeir þá langt í burtu", sagði Geirr, og skaltu,

Kolr, fara á Hörgsland, og segja þeim bræðrum, hvat títt er“. Síðan fór hann, sem Geirr skipaði, ok kom á Hörgsland, og sagði þeim bræðrum, hvat hann hafði sèt til þeirra þorbjarnarsona. Síðan fór þræilinn heim. þeir bræðr safna liði, ok ætla at fara at þeim þorbjarnarsonum með XXX manna.

Nú skal segja, hvat þorgeirr hefst at. Hann stóð upp snemma þenna morgin, ok fór til þeirra bræðra, ok sagði þeim, hvat nú fór fram hjá þeim þorgrímssonum. þá spurði Helgi, hvat þeir skyldi til ráða taka. Gunnarr svarar: „Vit skulum berjast við þá“; en þorgeirr talaði við Helga. „Ekki skulut þit berjast við liðsfjölda, því at þit orkit þar eigi, að berjast við svá mikinn liðsmun, sem þeir hafa bræðr. þá spurði Helgi, hvat þeir skyldi heldr en berjast; „ok skal margr rauðu snita, áðr vèr bræðr verðum handteknir“. þorgeirr sagði, at þeir skyldi fara í jarðhús þat, sem er undir sæng minni. Síðan fóru þeir með þorgeiri, þar til er þeir komu til jarðhússins, ok gengu þeir þar niðr. Síðan fór þorgeirr í burt frá þeim. En þorgrímr ok synir hans riðu nú til Murutungu. þá var þorgeirr nýklæddr, og stóð í dyrum úti. Hann heilsaði þeim ok bauð þeim þar at vera; en Grímr kvað annat þeirra erindi, en eta þar eða drekka, ok er nú nærr, að selja þá fram þorbjarnarsyni. þorgeirr segir, at þeir eru eigi þar; en síðan ríða þeir ofan með ánni, stíga af baki hestum sínum, en gengu síðan upp með gilinu, þangat til er Kolr sagði, at hellirinn væri. Síðan stigu þeir upp einstigið, þar til er þeir komu í hellinn. Sáu þeir þar eigi þess líkt, at þar hefði menn verit. Líkaði Jökli mjög illa við Kol, og var því búit, at hann mundi standa á hánum. Snúa við þat aptr til hesta sinna ok riðu heim síðan, og þóttust þeir mikla sneypu fengit hafa. Leið svá af vetrinn. þetta sumar kom skip

í Skaptárós, ok var Bárðr nefndr stýri-maðr[1]), ok hafði aldrei komið hingat til lands fyrri. Þorgrímr reið til skips ok vildi leggja lag á varning kaupmanna, en Bárðr vildi þat eigi, ok kvaðst sjálfr vilja ráða verðlagi á varningi sínum, en Þorgrími líkaði þat illa ok bannaði hverjum manni at eiga við þá skipti eða kaup. Reið hann heim eptir þat, en stýrimaðr sat eptir við skip sitt; skildu þeir við þat, at sinn veg þótti hvárum, ok leið svá langt fram á sumar, at engi kom í sandinn at kaupa við þá. En þat sama samar fóru þeir bræðr heim til Keldugnúps, ok váru heima með feðr sínum; ok einn dag komu þeir at máli við Þorbjörn föður sinn. Helgi mælti: „Skal lengi svá fram fara, að engi bjóði stýrimanni heim“. Þorbjörn svarar: „Hafit þit eigi frètt, hvat Þorgrímr hefir við lagt“? Helgi kvað þá eigi mundu verða at því farit, ok skal ek fara í dag til skips, ok bjóða heim stýrimanni“. „Þú munt þessu ráða“, sagði Þorbjörn. Síðan ríða þeir Þorbjarnarsynir, þar til er þeir koma til skips, ok var stýrimaðr þá nýklæddr, Hann bauð þeim bræðrum þegar inn í búð at drekka. Stigu síðan af baki ok drukku þar um daginn. Helgi mælti til Bárðar: „Er þat satt, at engi þorir, at bjóða þèr heim“? „Satt er þat“, segir Bárðr. „Þá vil ek bjóða þèr heim til Keldugnúps“. Bárðr kvaðst því gjarnan játa. En eptir þetta ríða þeir Þorbjarnarsynir heim. Þorbjörn spurði tíðinda, en þeir kváðust engi tíðindi kunna at segja, nema þat, „at vit buðum heim stýrimanni“. Þorbjörn sagði þar margan mundu kulda af kenna. „Ekki verþr nú við öllu sèt“, segir Helgi. Síðan var stýrimaðr heim fluttr, ok frèttist það nú víða um byggðina, ok þótti öllum þeir hafa mikit í fang færzt. Þorgrími og sonum hans líkaði þetta stórum

---

[1]) Í handritinu ritað stýrimann, og kemur sú mynd fyrir á stundum, í handritum, sem rituð eru seint á 14 öld, eða eptir það.

illa. Leið af sumarit ok langt fram á vetr, at hvárirtveggju sátu í kyrrðum.

þat var einn dag, at Gunnarr gekk til hrossa sinna. þeir bræðr úr Hörgsdal sáu, hvar Gunnarr fór, og stefndi upp á heiði frá Keldugnúpi. þeir fóru til Hörgslands, ok sögðu þeim þorgeirssonum, hvat þeir höfðu sèt. þeir brugðust ok þegar við, ok ætluðu at sitja fyrir hánum um kvöldit, þá er hann færi heim. þeir váru 15 saman. Gunnarr fann seint hrossin um daginn, ok varð hánum síð beint. Hann hafði eigi fleira vápna, en öxi stóra, er faðir hans hafði gefið honum. Ferr hann heimleiðis, þar til er hann kemr þar at, sem fyrirsátið var, ok þegar sem þeir finnast, þá mælti Jökull við Gunnar: „þat er vel, at vèr höfum hèr fundizt". En Gunnarr kvað þat eigi kunna at lasta, „er þú lofar svá; muntu vilja, að maðr mæti manni". Jökull svarar: „Ek skal ok nú þess njóta, at ek em nú liðfleiri". Síðan sóttu þeir at Gunnari með miklu kappi, en hann varðist vel ok drengilega; gekk svá lengi, þar til at hann hafði drepit 13. Nú er þar til at taka, at þorbjörn var heima ok Helgi son hans. þá mælti Helgi við föður sinn. „Frestast Gunnari, ok vil ek, at vit förum at leita hans". Síðan fóru þeir feðgar, þar til er þeir komu þar at, sem þeir Jökull og Grímr sóttu at Gunnari með miklu kappi. En þegar er þeir sáu þá feðga, þá lögðu þeir á flótta. þá mælti Helgi til Gunnars: „Viltu, at vit förum eptir þeim?" Gunnarr kvaðst eigi vilja elta þá, „því at okkr mun gefast tómstund at finna þá". Gunnarr var þá mjök sárr, lagði þorbjörn hann í vagn, ok óku þeir honum heim. Síðan váru sár hans þvegin ok greru þau skjótt. En er þeir bræðr komu heim, spurði þorgrímr þá Jökul tíðinda. Jökull sagði hánum þá allt, sem farit hafði. þá mælti þorgrímr: „Lítt þykir mèr upp hafa tekizt, og vilda ek, at þat legðist af, at eiga við þá bræðr". Jökull mælti:

„Ekki dugir ófreistað, ok munum vit Gunnarr finnast aptr“. Sár Gunnars greru skjótt. Leið nú á vetrinn. Fundust þeir eigi Bárðr stýrimaðr ok þorgrímr. Bárðr tók at búa sik um várið. þeir bræðr rèðust til ferðar með hánum, Helgi ok Gunnarr; en er þeir váru búnir, beiðist Gunnarr at ganga á land. Stýrimaðr bað hann ráða, ok koma þó skjótt aptr. Gunnarr játar því. Hann tók þá vápn sín, ok gekk sem hvatast til Hörgslands. þat varð síð um kvöld. Hann barði á dyrr. þræll einn gekk til dyra. Hann spurði, hver kominn væri, eða hví hann færi einn saman. Hann svarar: „Gríss er hèr“, segir hann. „Ek vilda finna Jökul sem skjótast“. þrællinn hljóp inn ok sagði Jökli. Hann tók vápn sín ok gekk út síðan. Gunnarr veik sèr fram á hlaðit, en dimmt var úti, ok sá Jökull eigi manninn, ok gekk út úr dyrunum, ok spurði, hvar Gríss væri. Gunnarr svarar: „Hèr em ek nú, ok gakk hingað. Jökull heyrði svör ok þóttist heilsa Grís. Gunnarr bað hann þá verja sik. Síðan börðust þeir í ákafa, ok fèll Jökull skjótt fyrir Gunnari. Síðan gekk hann heim aptr at dyrunum, ok spurði, hvar Grímr væri, ok bað hann útganga. Hann brá við skjótt, ok hljóp út þegar. Hann þekkti þegar manninn ok gekk at Gunnari með öxi stóra, en hann brá fyrir skildinum, en annarri hendi hjó hann til Gríms á fótinn fyrir ofan knèt, svá at af tók; fèll Grímr þá til jarðar. Lèt Gunnarr þá skammt höggva í millum ok hjó á hálsinn, svá at aftók höfuðit. Gunnarr gekk heim at dyrunum ok lagði Grím þar niðr; en eptir þetta unnit gekk hann til dyngju Helgu. Hún sat á palli, ok hafði leyst hár sitt úr dreglum. Hún sópaði þá hárinu frá augunum, er hún sá Gunnar, og heilsaði hánum glaðliga. Hann tók vel kveðju hennar. Hún spurði hann tíðinda, eða hvaðan hann væri at kominn. En hann sagði slíkt, sem hún spurði, ok settist niðr hjá henni. Helga mælti þá: „Hvat ætlar þú nú fyrir

